nytsö / helldur hef eg erfvidad meir
eñ þeir aller / eñ þo eg ecke / helldur
Naad Guds sem med mier er.

## Gudspialled S. Luc. 18. Cap.

A Þeim Doguin. JEsus sagde til nockra þeirra sem treystu uppa sialfa sig / lyka sem mundu þeir Riettlaater vera / z forsmaadu adra / þessa Eptirlyking. Tveir Menn geingu upp i Mustered ad bidiast fyrer / einn var Phariseus / eñ añar Tollheimtumadur. Phariseareñ stood og badst nu þañeñ fyrer med sialfum sier. Gud / eg þacka þier / ad eg em eige so sem adrer Meñ / Raan ingiar / Orietvyser / Hoordomsmeñ / eda so sem þesse Tollheimtumadur / Eg fasta tvisvar i Viku / og eg gief Tiunder af öllu þvi eg aa. Og Tollheimtumadureñ stood langt i

burtu

burtu fra / og villde ecke upplypta sijnum Augum til Himens/ helldur barde hann sier a Briost/og sagde: Gud/ vertu mier Syndugum Lyknsamur. Sannlega seige eg ydur Þesse foor Riettlatur framar hinum i sitt Hws. Hviad/ hver sa sem sig sialfann upphefur/ hann skal nidurlægiast. Og hvor sem sig sialfann nidurlæger/ hann mun upphafenn verda.

## Tolfta Sunnudag epter Trinitatis.

### Collectan.

Allmættuge/eilijfe Gud/ af hvørs Gaf þu bad kiemur / ad þijner Christner Menn kionna þier riettelega. Vier bidium/ Veit þu oss/ ad vier ann alldrei hindrunar / mættum fa og ødlast þad þu hefur lofad/ Fyrer/ etc.

### Pistillenn 2. Cor. 3. Cap.

Elsku-

Elſkuleger Brædur. Slijkt Tr-
auſt hofum vier til Guds fyr-
er Chriſtum/ ei þad vier ſieum
af oſſ ſialfum til nytter nockud ad
hugleida/ ſo ſem af oſſ ſialfum til/
helldur ef vier erum nockru nytter /
þa er þad af Gude / ſa er oſſ giorde
hæfelega Þienara hins Nyia Teſta-
mentis / ecke Bookſtafſins / helldur
Andans / þuiad Bookſtafuren deyd-
er / en Anden lijfgar. En ef þad
Embætte ſem fyrer Bookſtafen deyd-
der / og a Steinum var grafed /
hafde han Biartleik / ad Iſraels Sy-
ner gatu ecke lited i Aſioonu Mo-
ſis/ fyrer Biartleika ſaker hans And-
lits / ſem þo hefur Enda. Huernen
ſkillde þa ecke miklu meir þ Embætte
ſem Anden giefur / dyrdlegt vera þ
Þuiad/ ef þad Embætted ſem Fyr-
erdæmingena predikar/ hefur Birtu/
miklu framar mun þa Embættid
Rettl-

Rietklæfesins yffergnæpa i Wegferi-
deane.

Gudspialled S. Marc. 7. Cap.

Og þa JEsus gieck i burt apt
ut wr Landsalpum Tyri og
Sidonis/ kom hañ til Sia-
arens i Galilæa / i midiar Bygder
þeirra Tiju Stadaña. Og þeir
leiddu til hañs þann Mann / sem
Daufur og Malhalltur var / og
bædu ad hñ legde Hendur yfer hñ.
Og hañ veik honum Afsydis fra
Folkenu/ liet sijnar Fingur i hañs
Eyru/ hrækte wt/ og aħrærde hñs
Tungu/leit upp til Himens / and-
varpade z sagde til hañs: Hephe-
tha/ þad er/ opna þig. Og jafn-
snart upplukust hañs Eyru / þa
wpplevstest og eirnen Hafte hañs
Tungu/ so ad hañ talade rieft. Og
hañ skipade ad þeir segdu þad eige
neinum/

nefnum / Enn hvl meir sem hann
forbaud þeim þad / þess meir þa
vtbrægdu þeir þad vt/og þa skal-
fa undrade þetta nꜳ miog/ seg-
iande: Allt giorde hann vel/ hvad
Dauffa lætur hann heyra/og Mal-
lausa tala.

# Þrettanda Sunnudag epter
## Trinitatis.
### Collectan.

OHu Almattuge/ Eilijfe Gud / Gief
oss Aukning Truarennar/ Vonarennar
og Kiærleikans / so vier mættum ödlast
þad þu lofar/ og so ad elska þad sem þu
oss bydur. Fyrer þinn/ etc.

### Pistillen Galat. 3. Cap.

Kiærer Brædur. Eg tala ept-
er Mannlegum Vana. Eing-
enn Ongter Testamentum eins
Manns / nær þad er stadfest/ [illegible]
þar vid nockru. Nu eru þo Fyrer-
heiten Abraham tilsogd/ og hans Sæ-
de

de/ eige seiger hann Sædunum / so
sem sieu þau mörg / helldur so sem
umm eitt Sæde/ i þijnu Sæde/ hvert
ad er Christur. Enn þad seige eg /
þad Testament sem fyrrum er stad-
fest af Gude/ uppa Christum/ verd-
ur ecke Onytt giort af Lögmalenu
sem gefed var fioorum Hundrud
og þriatijge Arum þar epter. So ad
Fyrerheited afmædest. Þvi ef ad
Arfleifden yrde fyrer Lögmaled af-
rekud / þa er hun ecke gefenn fyrer
Fyrerheited. Enn Gud hefur fyrer
Fyrerheited af Nad gefed hana A-
braham. Hvar til skal þa Lögmal-
ed? Þad er tilsett vegna Yfertrod-
slunnar/ þangad til ad kiæme Sæd-
ed / hverin Fyrerheited var skied.
Og Lögmaled er skickad af Einglu-
num/ fyrer Hand Medalgaungu man-
ns. Enn Medalgaungumadurenn er
eige eins einasta Medalgaungumad-
ur/ enn Gud er eirn. Hvad þa? Hvert
er

er pa Logmaaled i giegn Guds Fyre
rheite; Pad sie piætre. Þvi ef pad
Logmal være giked sem lijfgad giæ
te/ sañlega pa kiæme Rietlæted wt
af Logmalenu. Eñ Ritningeñ hefe
ur alla innelukt under Syndeñe/ so ad
Fyreheited af Trwñe a JEsum
Christum/ giæfest Trwoðum.

Gudspialled S. Luc. 10. C.

O JEsus hañ snere sier til
sinna Lærefueina/ og sagde pe
im einslega. Sæl eru pau
Augu sem sia pad/ hvad pier siaid/
pvíad eg seige ydur/ pad marg
er Spaameñ og Kongar/ villdu ha
fa sied hvad pier siaed/ z sau pad
ecke/ og ad heyra hvad pier heyred
og heyrdu pad eige. Og sia / ad
nockur Logvitringur stood upp/ fre
istade hañs og sagde. Meystare/
Hvad skal eg giora/ so ad eg eign
est eilijft Lijf. Eñ hañ sagde til
hañs.

hans. Hvad er skrifad i Logmaalenu? Hvorneg les þu? Hañ svarade og sagde. Elska skalltu Drottenn Gud þiñ af ollu Hiarta þijnu/ z af allre Ondu þiñe/og af ollū Matte þijnu/ og af ollu Hugskote þijnu/ og þiñ Naunga sem sialfan þig. JEsus sagde til hñs/ Þu svarader riett/ giör þad z muntu lifa. Eñ hñ vill de riettlæta sialfan sig/og sagde til Jesu: Hver er þa miñ Naunge? JEsus svarade og sagde: Madur nockur foor fra Jerusalem / ofañ til Jericho / Og hrasade a medal Ræningia / hverer ad ræntu hann Klædum/og lemstrudu hañ Saarū/ geingu sidañ i burt / og lietu hann þar epter halfdaudañ liggia. Eñ so bar til / Ad Kieñemadur nockur foor ofañ þañ sama Veg/ Og er hañ leit hañ/ giecks hañ fram hia honum.

henum. Slijkt hid sama Leviten/
Pa hañ kom nærre þeim Stad/ og
sa hañ/ gieck hañ þar fram hia.
Eñ Samverskur Madur nockur
foor um sinn Veg/ kom þar nær-
re henum/ og sem hañ sa hañ/ þa
hrærdest hoñ af Myskun vid hañ/
og gieck ad honum/ batt um Saar
hañs/ Hellte þar i Vidsmiore og
Vijne/ og lagde hñ uppa siñ Eyk/
og flutte til Herbergis/ gaf og Giæt
ur ad honum. Eñ añars Dags
þar epter þa hañ foor i burt/ took
hñ upp tvo Peninga/ og fieck Hws
bwandanum/ og sagde til hañs:
Haf þu Gaat a honum/ og hvad
þu leggur meira wt/ þad skal eg
borga þier þa eg kiem aptur. Hvør
þeirra þriggia synest þier vera þess
Naunge/ sem hrapadur var a med-
al Ræningiaña? Eñ hañ sagde:

Sa

Sa sem giorde Myskunarverked a honum. JEsus sagde til hans: Far þu og gior slijkt hid sama.

## Fiortanda Sunnudag epter Trinitatis.

### Collectan.

ALmattuge eilijfe Gud / sem ad vardveiter þijna heilaga Christne med þijne Eilijfre Myskun / at þvi ad an þijn fellur mannlegur Veikleike / Vier bidium / lat hana fyrer þijna Hialp leidast fra þvi sem henne er skadsamlegt / til þess sem henne er gagnlegt og heilsusamlegt / Fyrer vorn / etc.

### Pistillenn til Gal. 5. Cap.

MIsskuleger Brædur. Enn eg seige ydur / Ganged i Andanum / þa munud þier ecke fullkomna Girnder ydars Holldz / þviad Holldid girnest i moote Andanum og Anden a moote Holldenu. Og þesser eru hver i moote ødrum / so ad þier giored

ed ecke hvad þier vilied. En ef And
en sioornar ydur / þa erud þier ecke
[illegible]der Logmalenu. Hvad Hollds'ns
Verk eru opeñber / sem ad eru Hoor-
doomur / Frillulifnadur / Ohreinlei-
ke / Lausung / Skurgoda Dyrkan /
Fiolkynge / Fiandskapur / Hatur /
Agg / Reide / Þrata / Sundurþick-
ia / Tvydrægne / Aufundskapur /
Mañdrap / Ofdryckia / Ofneytsla og
þessū likt. Vt af hvoriū eg hefe
ydur fyrre sagt / og seige eñ nu / ad
þeir sem slijkt giora / Erfa ecke Guds
Rijke. En Avextur Andans er Kær-
leike / Fognudur / Fridur / Þoleñ-
mæde / Blijdleike / Goodgirne / Tru /
Hoogværd / Bindinde. J gegn slijku
er ecke Logmaled. En þeir sem
Christo tilheyra / þeir Krossfesta sitt
Holld med Gyrndum og Tilhneig-
ingum.

Gudspialled S. Luc. 17. Cap.

Í Þañ Tyma. Og þad skiedi
so þa ed JEsus gieck til Jeru
salem / ad hañ ferdadest i
giegnum midia Samariam og Ga-
lilæam. Eñ sem hañ gieck iñ i
nockurt Kauptun / Mættu hönum
Tyu Lykþrær Meñ / hvorer ad
stoodu langt fra / hoofu sijnar Rad
der / og sögdu. JEsu goode Mei-
stare / Myskuna þu oss. Eñ sem
hañ leit þa / sagde hañ til þeirra.
Fared þier og synid ydur Kienne-
mönnunum. Og þad skiede so / þa
er þeir geingu þadañ / ad þeir urdu
hreiner. Eñ Eirn ut af þeim /
nær hañ sa þad ed hañ var heil-
brigdur vorden / snere hañ aptur /
Lofande Gud med hærre Raust /
fiell fram a sijna Asioonu fyrer Fæt-
ur JEsu / giorande hönum þack-
er / og þesse var Samverskur. Eñ

JE-

JEsus svarade og sagde: Hvort voru ecke Tju hreinsader? Enn hvar eru hiner Nýju? Aungver fundust þeir aptursnere ad giefa Gude Dyrdena / Nema þesse Utlendingur? Og hann sagde til hns: Statt upp og far hiedan / Þviad þýn Trw giørde þig hiálplegann.

## Fimtanda Sunnudag epter Trinitatis.

Collectan.

HErre HErra GUD / Vier Bidium / Lát þýna jduglega Myskunseme hreinsa og vernda þyna almennelega Christne / og af þvi hun án þyn ei kann ad vera holpenn / þa lát hana med þinne Nád og Gæsku jafnann stioornast / Fyrer / etc.

Pist. til Gal. 5. og 6. Cap.

MJe Elskuleger Brædur. Ef vier lifum i Andanum / þa gaunge um og so eirnenn i Andanum.

Verum ecke æglarner Niegoma Dyr
dat / hvar aññ Jñbirdis ad ȧ reita
og Dþunda. Kiœter Brædur / Eñ
ad Madur verdur i einhveriũ Breß
yfer fallen / Þa leidrietted hañ med
hoogværum Anda / Þier sem erud
Andleger / Og hafi Gaat a siálfum
þier / ad þu verder ecke Freistadur.
Eirn bere añars Byrde / og so mun
ud þier uppfylla Christi Logmal.
Eñ ef Einhvør lætur sier þikia þad
hañ sie nockud / þar hañ er þo eckert /
Sa tæler sialfañ sig. Hver og eirn
reine sijn eigeñ Verk / Þa mun hañ
a sialfum sier einasta Hroosun hafa /
Eñ eige a ødrum. Þviad hver og
eirn mun sijna Byrde bera. Eñ sa ed
uppfrædur verdur med Ordenu /
hañ byte hinum ǎlls hattudu Giæd
um sem hañ uppfræder. Fared eige
viller Vega / Gud lætur eige ad sier
hæda. Þviad hvad Madureñ sæer
nidur / þad mun hañ uppskiera. Þvi

ad hvør han i sijnu Hollde nidursæ-
tt / Sa mun af Hollðenu Skadseme
uppskiera. En hvør han i Andanum
nidursáer / Sa mun af Andanum
uppskiera eilijft Lijf. Þreytunst vier
ecke Gott ad giora / Þviad a sijnum
Tijma munu vier uppskiera Opreitt
er. Þar fyrer a medan vier hofum
Tijman / þa gierum Gott hverium
Mañe / Eirna mest / þeim sem eru
Trwareñar Heimkyñe.

Gudspialled S. Matth. 6. Cap.

Þeim Tijma. JEsus sagde til sinna Lærisveina. Eingeñ kañ tveimur Herrum ad þiena. Añadhvort hañ aprækter þañ Eina / og elskar hiñ Añan / eda hañ adhyllest þañ Eina / og fyrerlijtur hiñ Añañ. Eige gieted þier Gude þiona / og Mammona. Þar fyrer seige eg ydur. Vered eige hugsiwk-er fyrer ydru Lijfe / hvad þier skul-

ud Eta og Drecka/ og eige helldur
fyrer ydrum Lijkama/ hvoriu þier
skulud Klædast. Eda er ecke Lijfed
meir enn Fædslan/og Lijkamenn meir
enn Klædnadurenn ? Lijted a Fugla
Himens / þeir ed hvorke sa nie
uppskiera / Og ecke helldur safna
þeir i Kornhlødu/og ydar Himnesk
ur Fader hann fæder þa. Eda er
ud þier ecke miklu framar enn þeir?
Enn hvor ydar giætur med sinne A'
hyggiu auked einne Alenn vid sijna
Leingd? Og hvar til erud þier hug
siwker fyrer Klædnadenn ? Hygged
ad Akursins Liliu G. osum/ hvorn
enn þau vaxa / þau vinna ecke nie
spinna. Enn eg seige ydur/ þad Sa
lomon i allre sinne Dyrd/ var eige so
skrijddur sem eitt af þeim. Og ef
Gud klæder so G. ased þad i Dag
er a Akre/ og a Morgun verdur i

Ofn

Opn kastad/ skyllde han̄ ecke mikla framar þad sama vid ydur giora / O þier Lytiltruader ? Þar fyrer skulud þier ecke Hugsiuker vera/ so seigiande: Hvad eigum vier ad eta eda hvad eigum vier ad drecka/eda med hvoriu eigum vier ad Klædast ? Þviad epter þessu ollu leita heidnar Þiooder. Og ydar Himneskur Fader / han̄ veit ad þier þurfed alls þessa vid. Þar fyrer leited fyrst Guds Rykes/og so hans Rettlætes / og mun ydur ollt þetta tilleggiast. Fyrer þvi skulud þier ecke Ahyggiu bera fyrer Morgundeiginum/ þviad Morgundaguren̄ mun fyrer sialfum sier Umhyggiu bera. Hvoriu Deige næger sijn Planing.

## Sextanda Sun̄udag epter
### Trinitatis.

## Collectan.

HErre Almættuge eilijfe Gud/ vier bid-
ium/ Lat þijna Nꝏd ætijd vera ypp-
er oss a Bak og Brioost / So vier sieum
þier Riettelega undergiefner/ og upp vek
vor Hiørtu ad girnast þa Nꝏd/ ad vier
sieũ reidubwner til allra goodra Verka/
Fyrer/ etc.

## Pist. til Ephes. 3. Cap.

Ælskuleger Brædur. Eg Bid
ydur þad þier treygest ecke Sak
er miña Hørmunga sem eg lijd
fyrer ydur/ sem ydar Dyrd er. Þess
vegna þa beyge eg miñ Knie fyrer
Fødur vors Drottens JEsu Chri-
sti /. aff hvorium ad er allt þad sem
Børn kallast a Himnum og Jørdu/
ad hañ giefe ydur epter Rijkdoome
siñar Dyrdar ad styrkiast i Krapte fyr-
er hañs Anda i hinum iñra Mañe/
ad Christur fyrer Trwna bygge i
ydrum Hiørtum. Og ad þier sieud
Rootfester og grundvallader i Kiær-
leikanum/

leikanum / So þier mættud begrijpa med øllum Helgū / hver ad sie Vijd og Leingd / Dijpt og Had. Og ad vita eirneñ Kiærleikañ Christs / sem alla Þecking yfergeingur / so ad þier uppfylltust med allskonar Guds Fillingu. Eñ honum sem mattugur er alla Hlute yfergnæfanlegar ad giera / helldur eñ vier bidium / eda skilium / epter þeim Krapte sem i oss verkar / þeim sama sie Dyrd i Søfnudenum / Sa i Christo JEsu er / Um allar Allder Allda / AMEN.

Gudspialled S. Luc. 7. Cap.

I þañ Tijma. Og þad skiede so epter þad / ad JEsus gieck til þeirrar Borgar sem kallast Naim / Og hn̄s Lærefveinar geingu marger med honum / og mikell Fiølde aññars Foolks. Þa er hañ koom ad nælægiast Borgarhlided / Sia þu / þ Framlideñ Madur var

botest wt/einka Sonur sinar Mood ur / og hun var Eckia / og mikell Fiolde Borgarmaña gieck wt med heñe. Eñ þa ed Drotteñ leit haña/ Hrærdest hañ Myskunar yfer heñe/ og sagde til heñar. Grat þu eige. Og hañ gieck þar ad/og ahrærde Kistuna. Eñ þeir sem bæru stoodu vid. Og hañ sagde: Þu Vngmeñe/ Eg seige þier/Rijs þu upp. Og sa settest upp sem Framlidiñ var / og took til ad mæla/ og hañ gaf hañ aptur siñe Moodur. Eñ aller urdu Ottaslegner/lofudu Gud og sogdu: Spamadur mikell er a medal vor uppriseñ / Og Gud hefur vitiad sijns Folks. Og þesse Saga barst wt af honum/um allt Gydinga Land/og um oll kryngum liggiande Hierod.

Seyl-

## Collectan.

HErre Gud / Vier bidium þig / Veit þijnu Folke ad flyia Diøfuls Aeggian / Og þier einum saman af hreinu Hiarta epter ad fylgia. Fyrer þin / etc.

## Pistellen Ephe. 4. Cap.

ELskuleger Brædur. So aminne eg ydur nu / Eg Bandinge i Drottne / ad þier ganged so sem verdugt er ydarre Kallan / þar þier erud inne kallader / med ollu Lijtelæte og Hoogværd / og med Þoleinmæde / og umlijded hver annan i Kiærleika. Vered kostgiæfner ad hallda Einedrægne i Andanum / fyrer Band Fridarens. Eirn Lijkame og eirn Ande / So sem þier erud kallader / J einne Von / ydrar Kallanar. Eirn DRottenn / ein Tru / ein Skijrn / eirn Gud

Og Fader allra/ sa sem ad er yfer yd-
ur ollum/ og medal ydar allra/ og i
ydar ollum.

Gudspialled Luc. 14. Cap.

H Peim Tijma. Og pad skiede
so ad Jesus kom i Hws nock-
urs Phariseara Hofdingia
a Pvottdeige Brauds ad neita / og
peir hefdu Vardhalld a honum.
Og sia / pu / Ad Madur nockur
Vatzsiukur var par framme fyrer
honum Og J Esus andsvarade og
sagde til Logspekingana og Phari-
seana/ so seigiande: Hvort leifest
nockud ad lækna a Pvottdogum?
En peir pogdu vid. Og hann tok
a honum/læknade hann/og liet hann
i burt fara / svarade og sagde til
peirra; Hvors ydar Asne eda Naut
sem fellur i Pitt/ er pad eige sogn-
snart wtdreiged a Pvottdeige? Og
peir

þeir gætu honum aungvu þor til
svarad. Eñ hñ sagde þessa Epl-
eriŋ[?]ing til þeirra sem bodner voru/
þa ed hñ merkte hvorneñ þeir mott
ust epter hinum fremstu Sætum /
seigiande so til þeirra. Nær ed þu
verdur bodeñ af einhvorium til Br
wdkaups / þa set þig ecke i hid æd-
sta Sæte/ kañ skie/ þad annar heid-
arlegre eñ þu/ sie bodeñ af honum/
og kome sa sem þier baud og hon-
um/ og seige til þijn/ Giess þessum
Rwm/ og hlioter þu þa med Kinn-
roda ad hafa hid ysta Sæte. Helld
ur so / nær ed þu verdur bodeñ/ þa
far þu/og set þig i hiñ ysta Sess/
so ad þa nær ed sa kiemur er þier
baud / þa seige hañ til þijn/ Wiin-
ur/þoka þier upp betur. Þa mun þi
er Virding veitast hia þeiñ Sessu
nautum. Þviad / hvor sig sialfur

upphefur / hann mun nidurlægiast/ og hver sig lijtelæter/ hann skal upp-hafenn verda.

# A Michaelis Messu.

## Collectan.

Almattuge/ Eilijfe Gud/ sem skapad hefur þyna heilogu Eingla / þinum Þionum til Styrks og Hialpar / J mooti margskins Voda og Haaskasemd þessarar Veralldar. Vier bidium/ giefdu þu oss Nad til þess/ ad vier sieum þier þack-later fyrer sodana Giøfu og alla adra Velgiorninga/ z veit oss ad vier med þinne Nad/ verdum vardveitter fyrer þyna Eingla fra ollum vondum Slutum. og til alls þess sem þier ma þocknast. Fyrer/ etc.

## Pist. i Op. B. S. Joh. 12.

J Þeim Dogum. Og þar giord-ist Strijd a Himne / Michael og hans Einglar bordust vid Drekann/ Drekenn bardest z hans Eing-lar/ og yfervunu ecke/ og þeirra Stad-

ur

ur vard ecke meir fundeñ a Himnum. Og sa mikle Dreke og hinn gamle Hoggormur/ sa sem ad heiter Diofull og Andskote/ vard wtsnaradur a Jordena/ hvør ed alla Jardarkringluna viller. Og hañ vard wtsnaradur a Jordena/ og hañs Einglar urdu eirneñ wtsnarader. Og eg heyrde Rødd mikla af Himne seigiande. Nu er Heilsa & Kraptur/ Rijke & Mattur/ vors Guds vordeñ hañs Christs/ med þvi wtsnaradur er Aklagare Brædra vorra/ Sa ed þa aklagade fyrer Gude vorum Dag og Natt. Og þeir hafa hañ yfervuñed fyrer Lambsins Blood/ Og fyrer Orded þeirra Vitnisburdar/ og þeir hafa ecke elskad sitt Lijf/ allt til Daudans. Þar fyrer glediest þier Himnar/ og þier sem þar iñe bygged.

## Gudspialled S. Matth. 18.

J þañ

Þañ Tijma/ Geingu Læ-
resveinarner til JEsu/og
sögdu: Hver er mestur i
Himnarijke? Jesus kall-
ade eitt Barn til sijn / og sette þad



midt i millū þeirra og sagde: Sañ-
lega seige eg ydur / nema þier umū-
snwest/ og giøreft so sem Smæbø-
rn/ munud þier ecke iñganga i Gu-

ds

ds Ryke. Hvor sialfur sig lækkar so sem Vngmenne þetta/ sa er mestur i Ryke Himnanna. Og hvor sem medtekur eitt þvilijkt Vngmenne i mijnu Nafne / sa medtekur mig. En hver hann hneixlar einn af þessum Smælingium sem a mig trwa/ þarþata være honum ad Mylnusteirn heingdest umm hans Hals/og være i Siafardiwp sockt. Vei se Heimenum þyrer Hneixlaner / Þat hlioota po ad koma Hneixlaner. En Vei þeim Manne/ fyrer hvorn ad Hneixlanenn kiemur. En ef þijn Hond edur þinn Footur hneixlar þig/ snijd hann af og snara honum fra þier. Betra er þier inn ad ganga til Lijfsins/ Halltur og Na[illegible]vane / en pad þu hafer tvær Hendur og tvo Fætur / og verdir i Eilijfann Elld kastadur. Og ef Au-

ga þitt hneixlar þig / þa ſlijt þad wt og ſnara þvi fra þier / betra er þier Eineigdum iñ ad ganga til Lijfsins / eñ þad þu haper tvo Au‑ gu / z verder i heluijtiſkañ Elld kaſt adur: Sicied til ad þier forſmaned ecke eirn af þeſſum Smælingium. Þviad eg ſeige ydur / ad þeirra Einglar a Himnum / ſia jafnann mijns Fodurs Auglit / ſem er a Himnum.

## Atianda Suñudag epter Trinitatis.

### Collectan.

HErre Herra Gud / vier bidium / lat þitt Miſkunarverk ſtijra vorum Hiortum. Þviad aꝛ þin utigum vier, þier ei þocknaſt. Fyrer / etc.

### Piſtillen 1. Cor. 1. Cap.

Elſku‑

Elskuleger Brædur. Þacker giø
re eg Gude mijnum iafnañ yd,
ar vegna/ fyrer þa Guds Naad
sem ydur er giefeñ i Christo JEsu.
Þad ad þier erud i øllum Hlutum
auduger ordner i honum/ i øllu Or-
de/ og i allre Þeckingu/ epter þui
sem sa Vitnisburdur JEsu Christi
er stadfastur ordeñ i ydur. So ad
þier hafed aungvañ Brest i nockre
Giøf/ epterbijdande Augliosingu vors
Drottens JEsu Christi/ hver ed og
mun til Enda stadfesta ydur ostraff-
anlega til Dagsins DRottens vors
JEsu Christi. Þviad Gud er trwr/
fyrer hvørn ad þier kallader erud til
Samlags Sonar hans JEsu Chri-
sti vors DRottens.

Gudspialled S. Matth. 22. C.

Þañ Tijma. Þa Phari-
searner heyrdu þad/ ad
hañ hafde nidurþaggad
þa Saduceos/ saman ko-

nduſt þeir i eitt. Og eirn Logvit-
ringur af þeim ſpurde hn̄ ad/ ꝼreiſt-
ande hañs og ſagde : Meiſtare /
hvort er hid hædſta Bodord i Log-
mꝏlenu ? En̄ JEſus ſagde til
hañs: Þad/ ad þu ſkallt elſka Dr
otteñ Gud þiñ/ af ollu Hiarta þy-
nu/og af allre Aundu þiñe/ og af
ollu Hugſkote þinu. Þetta er hid
fyrſta og ſtædſta Bodord. En̄ hid
añad er þeſſu lykt / þad / ad elſka
ſkalltu Naunga þiñ ſo ſem ſialfa
añ þig. J þeſſum tveimur Bodord
um er iñebunded allt Logmꝏl og
Spꝏmeñerner. En̄ þa Phariſꝏar
ner voru ſo til ſamañs komner/ſpur
de JEſus þa ad og ſagde : Hvad
virdeſt ydur um̄ Chriſt/hvors Son
hañ ſie ? Þeir ſogdu honum/Da-
vids. Hañ ſagde þa til þeirra:
Hvorneñ kallar David hañ þa i

Aunda

Anda eirn HErra? Þar hañ seiger: Drotteñ sagde mijnum Drottne. Sit þu mier til hægre Handar/ þangad til ad eg legg Ovine Þyna Skor Fota þinna. Nu ef David kallar hañ eirn HErra/ hvornen er hañ þa hañs Sonur? Og eingeñ gat svarad honum einu Orde. Og eige dirfdest nockur upp fra þeim Deige/ hñ framar ad spyria.

# Nijtianda Suñudag epter Trinitatis.

## Collectan.

HErre Almattuge og Myskunsame Gud / Utreking þu Myskunsamlega alla þa Hlute sem ad oss eru mootstradlegir/ So ad vier liduger i Sal og Lijfe/ mættum i þeim Hlutum sem þier tilheyra/ med Lostugum Huga og Hiarta/ hier Epterfylgia og þocknast. Fyrer JEsum Christum þin Son/ etc.

## Pistilleñ Ephe. 4. Cap.

Kiære

KIærer Brædur. Aflegged fra
yður epter fornne Breitne hinn
gamla Mannenn þerdiarfadann i
Gyrndum Villudoomsine. Enn End
urnyest i Anda ydars Hugskots / og
Iklædest þeim nyia Manne / sem epter
Gude er skapadur i Riettlæte og Hei
lagleika Sannleikans. Þar fyrer af-
legged Lygar / og taled Sannleik / hver
og einn vid sinn Naunga / þviad vier
erum Innbyrdis hver annars Limur.
Reidest og syndgest ecke. Lated ecke
Sólena undergangá yfer ydarre Rei-
de. Giefed og ecke Rwm Diöflen-
um. Hver stoled hefur / sa stele ei
meir / helldur Erfide og Afle med
Hondunum þad Gott er / so ad hann hafe
ad giefa þeim sem þurfluger eru.

Gudspialled S. Matth. 9. Cap.

ÞAnn Tyma. JEsus stie a
Skip / foor hann yfer um apt-
ur / og kom i syna Borg. Og

Sia /

ſem/ ad þeir færdu til hans Limafallssiwkan Mann/ þñ er lꝏ i ſinne Reckiu. Enn þa Jeſus leit nu þeirra Trw/ ſagde hann til hins Limafallssiuka. Vertu hughraustr Son mi/ þijnar Synder eru þier fyrergiefnar. Og ſiꝏ/ ad nockrer af Skriptlærdum ſogdu med ſialfum ſier. Þeſſe Guddlaſtar. Og ſem Jeſus ſꝏ þeirra Hugrenning ar/ ſagde hann. Hvat hyrer hugeð þier ſo vont i ydrum hiertum? Hvort er audvelldara ad ſeigia/ þier eru þijnar Synder fyrergiefnar? Ellegar ad ſeigia/ Statt upp og gack? Enn ſo ad þier viteð/ þad Mannſins Son hefur Magt a Jordu til ad fyrergiefa Syndernar/ (Þa ſagde hann til hins Limafallssiwka.) Statt upp/ tak i burt Sæng þijna/ z gack i þitt Hws. Og hann ſtood upp/ og.

feer i sitt Hws. En þa Foolked sa þetta/ undradest þad/ prÿsande Gud/ sa ed þvilÿka Magt hefde Monnunum giefed.

## Tuttugasta Sunnud. epter Trinitatis.

### Collectan.

HErre Herra Gud/ vier bidium/ veittu mildelega þinum Trwlyndum Lyrn og Frid/ so ad bæde hreinsest þeir af syn um Syndum/ og med hreinu Hiarta þier þioone. Fyrer þin/ etc.

### Pistillen Eph. 5. Cap.

SJaed nu Brædur. Siaed so til/ ad þier ganged forsialega/ eigi so sem Faavÿser/ helldur so sem Vÿser. Taked Vara a Tijmanum/ þvi þad er vond Tyd. Fyrer þvi vered ecke Oforsialer/ helldur skiliande hver ad sie Vilie Drottens. Og drecked ydur ecke Vÿn drucna/

drucknа/ þvi þar aƒ kiemur ſaurugt
Lyþerne. Helldur uppfyllest med An
da/ og taled. Hver vid añañ aƒ Pſalm
um og Loþſaungum/ og Andlegum
Kvædum/ Syngiande og Spilande
Drottne i ydrum Hiertum. Og
gieред Þacker alla Tijma Gude og
Fedur þyrer alla Hlute / J Nafne
Drottens vors JEſu Chriſti. Og
vered hver ødrum undergieƒner i
Guds Otta.

Gudſpialled S. Matth. 22. Cap.

A Þeim Tijma. JEſus
ſvarade og talade i añad
ſiñ i Epterlijkingum til
þeirra/ og ſagde: Him-
narijke er lijkt þeim Konge/ ſem
Brwdkaup giørde Syne ſijnum.
Og wtſende ſijna Þiona ad kalla
Bodsmeñena til Brwdkaupſins /
og þeir villdu ecke koma. J añad
ſiñ ſende hañ wt adra Þiona/ og

 ſagde:

sagde: Seiged hier Bodemosium
um. Simed/Myna Maltyd hepe
eg tilbwed / Myner Vrat og aled
Fie er slatrad / Og allt er Reidu
bwed / Komed til Brwdkaupsins.
En þeir forsmadu þad og geingu
burt/ Einn a sijn Bogard/ en Annar
til sijnar Verdslunar / en hiner ad-
rer gripu hans Þienara / og logdu
þeim Hadungar til/ og drapu þa.
En þa Kongurenn heyrde þetta /
Vard hann reidur/ Og sende wt sitt
Herlid/ og fyrerfoor þessum Mord
ingium / Og brende upp þeirra
Borg. Þa sagde hann til sijnna Þiene-
na: Brwdkaupid er ad sonnu Reidu
bwed/ en þeir sem bodner voru/ þeir
voru þess ei verduger. Þar fyrer
fared wt a Gatnamooten/og biodid
til Brwdkaupsins hveriium sem
þier finned. Og hans Þienarar geim

ga wt a Strætet/og samanseknudu ollum þeim sem þeir fundu / Bond um og Goodum. Og Brwdkaup ed vard fullt med Bordsett Foolk. Eñ þa ed Kongureñ gieck iñ ad sia þa sem til Bordsins sætu / Sa haň þar eirn Maň / eige klæddaň med Brwdkaups Klæde. Og sagde til haňs: Vinur/ hvorneň gieckstu iñ hingad / hafande ecke Brwdkaups Klæde? Eň haň þagde. Þa sagde Konguteñ til siña Þienara. Bindeð haňs Hendur og Fætur/og kasteð honum wt i hin ytstu Myrkur/ þar ed vera mun Oop og Taña gnýstran. Þviad marger eru kallader/ eň fæer Utvalder.

## Tuttugasta og Fýrsta
### Suñudag epter Trinit.
### Collectan.

HEyr HErra Gud/ vier bidium/ vardveit þinn Lyd med jafnlegre Myskun þinne/ og ad hann mætte fyrer þyna Hlyfd verda frials fra øllum mootstædelegum Hlutum / Og i goodu Framferde þynu Nafne jdugleja þioona / Fyrer/ etc.

## Pistillenn til Ephes. 6. Cap.

ELskuleger Brædur. Styrkist i DRottne/ og i Mætte hanns Kraptar. Jklæded ydur Guds Alvepne / so ad þier gieted staded i gegn Vmsatrum Diøfulsins. Þvi ad vier hofum eige vid Hold og Blood ad beriast/ helldur vid Høfdingiadæme og Magtarvellde / Vid Drottna Veralldarennar/ vid Myrkranna Stioornendur þessa Heims / vidur Jllsku Anda i Loptenu. Þar fyrer taked Alvepne Guds vppa ydur/ so ad þier gieted Motstodu veitt a þeim Vonda Deige / Og allt vel framkvæmed/ Og staed Sigurenn. So standed nu vmgyrder ydar Lende

ed

ar med Sañleikanum / og Prýddet
Brinju Riettlætesins / og um̄ Fæt-
urnar Skoþakader / so sem reidubwn-
er fram̄ ad fylgia Evangelio Frid-
arens. Eñ um̄fram̄ alla Hlute / þa
medtaked Skiølld Trwarennar / med
hvørium þier kuñed wt ad slöckva øll
Elldleg Skeyte hins Prettvijsa. Og
grýped Hialm Hialpræðesins / Og
Sverd Andans / Hvørt ad er Guds
Ord.

Gudspialled S. Joh. 4. C.

JÞañ Tyma. Þar var Eirn Kongsmadur / hvørs Sonur ad siwkur lá til Capernaū. Þa hañ heyrde þad / Ad JEsus var komeñ af Gydinga Lande i Galileam / foor hañ til hañs / og bad hañ / Þad hañ fære ofañ og læknade Son hañs / þviad hañ var ad mestu daudur. Þa sagde JEsus til hañs: Nema ad þier siaed

Teikn og Stoormerke trwed þier ecke. Kongsmadurenn sagde til hans: HErra / Far þu ofan adur enn Sonur minn andast. JEsus sagde honum þa: Far þu / Sonur þinn lifer. Og Madurenn trwde þeim Ordum er Jesus sagde honum/ og gieck þadann. Enn þa ed hann foor ofann epter/ geingu hans Þienarar i moote honum og kunngiordu honum seigiande: Sonur þinn lifer. Hann spurde þa þar ad / A hvorium Tyma þad honum hefde batnad/ Og þeir sogdu honum: J Giær umm Siøundu Stund hvarf fra honum Kaldann. Þa formerkte Faderenn / Ad þad var umm þann Tyma/ A hvorium ad JEsus hafde sagt Sonur þinn lifer: Og hann trwde/ og allt hans Heimafolk.

Tuttug

# Tuttugasta og Annann Sunnudag epter Trinit.

## Collectan.

O Herra Gud/ sem ert vort Skiol og Styrkur/ Vær laguer wertu Gudlegum Bænum þinar almennelegrar Christne/ og hvad helst sem vier þig Rietteliga um biðium / mættum þad Myskunsamliga fá og ödlast. Fyrer/ etc.

## Pistillenn Philipp. 1. Cap.

ELskuleger Brædur. Eg þacka Gude mijnum / so opt sem eg hugsa um ydur/ hvad eg giöre alla Tijma i öllum mijnum Bænum fyrer ydur öllum/ og þa Bæn giöre eg med Fögnude / fyrer þad Samfielag sem þier hafed i Evangelio/ fra hinu fyrsta Dage/ allt til þessa. Eg em þess hins sama i goodre Treyste/ ad sa sem i ydur hefur upphyriad hid gooda Verked/ hann mun þad einnenn fullkomna allt til þess Dags

Jesu Christi. So sem ad mier er Tilheyrelegt / ad eg meine um ydur alla / þviad eg ber ydur alla i mijnu Hiarta. J mijnum Fiotrum / og i Forsvare og Styrkingu Evangelii / ydur alla sem med mier erud Nadarennar Hluttakarar. Þviad Gud er minn Vottur / hvad mieg eg elska ydur i Hiortum JEsu Christi. Og þess sama bid eg / Pad ydar Kiærleike ypergnæfe meir og meir / i allre Vitsku og allre Reinslu / So ad þier meiged reina hvad best er / uppa pad þier sieud skirer og an Hneixlunar / allt til þess Dags Christi / fuller med Avoxtu Riettlætesins / Hvorier ad skie fyrer Jesum Christum til Dyrdar og Lofs Gude.

Gudspialled Matth. 18. C.



O JEsus sagde til sinna Lærisveina : Himnarijke er lijkt vid einn Konung / sem reikna vilde

ýfilde vid Þioona sijna. Og er hañ
took til ad reikna / Kom eirn fyrer
hañ sa ed honum var skylldugur
uñ Tiju Þusund Punda / eñ þa hañ
hafde þad eige til / sem hañ skyllde
gialda / skipade Herrañ ad selia
hañ / hañs Hwsfreyiu / og so Börn-
eñ / og allt þad hañ ætte / og bor-
ga þar med. Eñ sa Þioon fiell fra-
am / tilbad hañ og sagde: Haf Þol-
iñmæde vid mig / allt skal eg þier
gialda. Eñ Herrañ sa Aumur a
þeim Þioon / og liet hañ lausañ / og
gaf honum upp alla Skulldena.
Eñ þa hañ geck wt / fañ hañ eirn
af sijnum samlags Þioonum / sa ed
honum ætte ad gialda hundrad Pen-
inga / þañ sama Handtook hañ /
greyp fyrer Kverkar honum / og
sagde: Gialld þ þu ert mier skylld-
ugur. Og hañs samlags Þioon fiell

 fram

fram til Soola hans / bad han og
sagde : Haf Þolenmæde vid mig/
þvi allt skal eg giallda þier. En
han villde ecke. Helldur foor burt/
og liet han i Dyblyssu/ þangad til
han hafde borgad sijna Skulld.
En sem hans Sampiónar sau
hvad skiede/ urdu þeir miøg hrygg-
ver vid/ komu og kunngiørdu sijnum
Herra / allt hvad ed giørst hafde.
Þa kallade hans Herra a han/ og
sagde til hans : Þu illur Þioon/ alla
þa Skulld gaf eg þier upp/ af þvi
þu badst mig. Hvort byriade þier
þa ecke Myskunsomum ad vera vid
þinn Samlags Þioon/ lijka sem þad
eg var þier Myskunsamur ? Og
hans Herra vard reidur/ og Ofur-
sellde han Kvolurunum / þangad
til han hafde borgad/ allt þad han
var honum skylldugur. So mun og
minn

minn Himneskur Fader giöra vid ydur/ Ef ad hvor ydar sem Eirn fyrergiefur ecke wt af Hiarta/ sijnum Brodur / hans Misgiörder.

# A Allra Heilagra Messu.

## Collectan.

HErra þu Almattuge eilijfe Gud/ sem villder Heilaga giöra alla þijna Utvalda og Elskulega/ i þijnum Eingetna elskulega Syne/ lattu oss þessa Trw/ Von og Kiærleika epter fylgia / Só ad wier med þeim mættum verda Sælu hoolpner / Fyrer/ etc.

Pist. Openb. B. S. Joh. 7. C.

A Þeim Dagum. Og epter þad sa eg Fioora Eingla standa a Fioorum Hornum Jardarennar/ og þeir innehielldu Fioorum Vindum Jardarennar/ so ad eingenn Vindur blies a Jordena/ nie a Sioenn/ nie a nockurt Trie. Og eg sa annann

Engel uppstijga af Vppgaungu Sooloreñar/sa hafde Jñsigle lifand
da Guds / Og kallade hærre Roddu
til fiogra Einglasia/ hvøriũ gief
ed var ad granda Jordũe og Sioo
num/ og sagde. Grandeð ecke Jord
ũe/ Eige Sioonum / nie Triaan
um/so leinge þad vier Jñsiglum þio
na vors Guds i þeirra Eñum. Og
eg heyrde Tølu þeirra sem Jñsiglad
er voru /Hundrad fiooratt og fiortu
tiiger Þusunder voru iñsiglader i aller
re Kynkvijsl Jsraels Sona. Af
Kine Juda tolf Þusunder iñsiglad
er. Af Kine Ruben tolf Þusunder
iñsiglader. Af Kine Gad tolf Þu
sunder iñsiglader. Af Kine Aser tolf
Þusunder iñsiglader. Af Kine Neph
talim tolf Þusunder iñsiglader. Af
Kine Manasse tolf Þusunder iñsig
lader. Af Kine Simeon tolf Þu
sunder iñsiglader. Af Kine Levi tolf
Þusunder iñsiglader. Af Kine Jsa
schar

ſchar tolf Þuſunder inſiglader. Af Kine Sabulon tolf Þuſunder inſiglader. Af Kine Joſeph tolf Þuſunder inſiglader. Af Kine Benjamin tolf Þuſunder inſiglader. Og epter þad ſa eg / og ſia / ad Skare mikell / hvorn ad eingen gat taled / af øllum Kinkvijſlum Þiodum og Folke og Tungumaalum / Stood frame fyrer Stoolnum og Lambenu / umſkrijdder hvijtum Skruda / og Palmavidur i þeirra Hondum. Og þeir kølludu hatte Raddu / Og ſøgdu. Heilſa ſie þeim ſem a Stoolnum ſitur / vorum Gude og Lambenu. Og aller Einglar ſtoodu umhverfis Stooleñ / og kringum Aulldungana / og um kring þau fiegur Dyren. Og fiellu nidur fyrer Stoolnum fram a þeirra Aſianer / og tilbaadu Gud / og ſøgdu / Amen. Lof og Dyrd / og Speke / þacker og Hiedur og Kraptur og Styrkleike / Sie vorum

Gude

Gude / Vm Allder og ad Eilijfu / AMEN.

Gudspiallid S. Matth. 5. Cap.

DA er JEsus leit Foolked / giecf han uppa Fiallid. Og þa han sette sig nidur/ geing



su hans Lærisveinar til hans. Og han lauk upp sijnum Munne/ kiende þeim og sagde: Sæler eru þeir sem Andlega eru Voladir/ þviad þeirra er Himnarijked. Sæler eru þeir sem Harma/ þviad þeir munu huggader

er

er verda. Sæler eru Hoogværer/ hvïad þeir munu Jardrijked erpa. Sæler eru þeir sem hungra og þyrsta epter Riettlætenu / hvïad þeir skulu sadder verda. Sæler eru myskunsamer / hvïad þeir munu Myskun hlioota. Sæler eru Hreinhiartader / hvïad þeir munu Gud sia. Sæler eru þeir sem Fridenñ semia / hvïad þeir munu Guds Boꝛn kallader verda. Sæler eru þeir sem fyrer Riettlætesins saker ofsoktter verda / hvïad þeirra er Himnarijke. Sæler erud þier nær sem Meñerner hallmæla ydur / og Ofsookn veita og tala i giegn ydur alla Vondsku/ fyrer mijnar saker / þo Liwgande. Fagned þier og vered glader/ hvïad ydart Verdkaup er miked a Himnum. Hvïad so ofsooktu þeir Spameñena/ þa sem fyrer ydur voru.

Tuttug⸗

## Tuttugasta og Prédik
### Sunudag epter Trinit.

### Collectan.

Hyr HErra Gud / Vier bidium / ad þu leys Synder þyns Folks / og lat oss af vorum Synda Bøndum / sem vier sek er vorra Breyskleika erum bunder / med þinne Millde leysast / Fyrer / etc.

### Pist. til Philip. 3. og 4. Cap.

Kiærer Brædur. Vered mijner Epterbreitendur / og giæted ad þeim / sem so ganga / ad þier hafed oss til Fyrermyndar. Þviad marger ganga so / ad hverium eg hefe optsinis sagt ydur. Ein nu seige eg ydur Grátande / þeir Oviner Krossens Christi / hverra Apte lok er Fyrerdæmingen / hverra Gud Maginn er / og þeirra Begsemd sem sardlega sinader eru / verdur til Skam mar. Enn vor Borgar Riettur er a Himnum / hvadan vier væntum Frelsa

vors Drottens JEsu Christi / sa ed
vorn þæþeingan Lijkama mun þor,
klæra/so ad hann lijkur verde hans þor
klarudum Lijkama/epter þeim Kraf-
te/ sem hann kann sier alla Hlute med
Undergiefna ad giora. Þar fyrer
mijner kiærer og elskuleger Brædur/
minn Fagnadur og mijn Corona /
standed so i Drottne elskanleger. Evo
diam ameine eg / og Syntychen a-
meine eg / þad þier sieu Samlyndar i
Drottne. Eg bid þig og eirnen minn
Eigenlegur Sampioon/hialpa þeim
sem med mier stridt hafa i Evange-
lio / og med Clemense / og hinum
ödrum mijnum Sampioonum/hver-
ra Nøfn ed eru i Lijfs Bookenne.

Gudspialled S. Matth. 22. Cap.

J þann Tijma. Þa geingu
Phariseararner/ og hielldu
eitt Raad/ ad þeir fenge
veidt hann i Ordum. Og

sen-

sendu til hañs sijna Lærisveina med
Herodis Þienurum / so seigiande:
Meistare / Vier vitum þad þu ert
Sañsogull/og kieñer Guds Got i
Sañleika / skeyter eige nockrum /
hvad þu þer eige ad Mañvirding-
eñe. Þar fyrer seig þu oss / hvad
þier lijst. Hvort leyfest ad giefa
Keysaranum Skatt edur eige? Eñ
þa JEsus formerkte þeirra Von-
sku/ sagde hañ: Hvad freisted þier
mijn Hræsnarar? Sijned mier Myn-
tena Skattsins. Og þeir feingu
honum eirn Pening. JEsus sag-
de til þeirra: Hvors Mynd og
Yferskript er þetta? Þeir sogdu
honum/ Keysarans. Þa sagde hñ
til þeirra: Giefed þa Keysaranum
hvad Keysarans er / og þad Gude
hvad Guds er. Og er þeir heyrdu
þetta/ undrudust þeir/ forlietu hañ
og geingu i burt. Sama-

# Tuttugasta og Fiorda Sunnudag epter Trinit.

## Collecta.

EIlijfe/ Almattuge Gud/ styrk vora/ hiarte med atvijkonum Þijnrar Giafar þeim at Eilijfrar Miskunar/ so ad þeir meige tu haba Hug og Vilia til hyn/og ad þeir ta Hiertu sem reidubuen til allra goodra Verka/og proofst i öllu þvi sem þier vel þocknast. Fyrer JEsum Christum þinn Son/ etc.

## Pistillen Colos. 1. Cap.

KIærleger Brædur. Þar fyrer vier einnen / allt fra þeim Deige/ þa vier höfdum þad heyrt / lietum vier ecke af / fyrer ydur ad bidia og beidast / þad þier uppfyllest med Þeckingu hns Vilia/ i allshattudum Andlegum Vijsdoome / Skilninge/ so ad þier ganged i Þeckingu/ Drottne Verduglega/til allrar Þocknunar. Og sieud Avaxtarsamer i öllum goodum Verkum/og ad þier

þrijd

steud varande i Peckingu Guds / og styrkest i ollum Krapte / epter Mætte hns Dyrdar / i ollre Polenmæde og Langlundar-Giede / med Fagnude-Gierande Pader Fodurnum / sem oss hefur skappellega giort til ad edlast Autskipte Heilagra i Lioosenu-Sa ed oss hefur frelsad af Yfervalde Myrkrana / og hefur oss sett i Ryke syns elskulega Sonar / i hvorium vier hofum Endurlausnena fyrer hans Blood / sem er Syndana Fyrergiefning.

Gudspialled S. Matth. 9. C.

Þad Tyma. Þa ed JEsus talade þetta til þeirra: Sia þa / ad Hofdinge nockur gieck ad / og tilbad hann / segiande: Myn Dootter er nu sałud / en þu kom og legg þyna Hond yfer hana / og mun hun lifa. Og JEsus stood upp / og fylgde honum / og so hans Lærer

Læresveinar. Og sia þu/ ad Kona/ hvør ed haft hafde Blodfall i tolf Aar/ gieck a bak til vid hann/ og snerte Falld hans Klædnadar. Þvi hun sagde med sialfre sier. Ef ad eg mætte ad eins snerta hans Klædnad/ munde eg heilbrigd verda. En Jesus snerest vid/ leit til hennar og sagde. Vertu hughraust Dotter/ þijn Trwa giorde þig heilbrigda. Og a þeirre somu Stundu/ vard Konan heilbrigd. Og þa ed Jesus kom inn i Høfdingians Hws/ og sa þar Lwdurþeytara/ og Hulldran Foolksins/ sagde hann til þeirra. Vyked fra/ þviad ecke er Stulkan daud/ helldur sefur hun. Og þeir dárudu hann. En sem Folk ed var wtdrifed/ gieck hann þar inn/ og tok um hennar Hønd. Og Stulkan stood upp. Og þetta Ryckte barst wt um allt þad sama Land.

# Tuttugasta og Fimta
## Sunnudag epter Trinit.

### Collectan.

DRottenn Gud himneske Fader / Tien þu oss Aumum og Syndugum þyna Myskunseme/ og epter þvi vier meigum eige reida oss uppa nockra vora Forþienu-an/ helldur alleina treysta þinne Naad / So ad vier ei skulum falla i þann stranga Doom/ helldur ad vier mættum hepnast þar fra /. fyrer þyna Naad og Myskunseme, Fyrer Jesum Christum/ þinn Son/ etc.

### Pistillenn 1. Tessal. 4. Cap.

LIfsalleger Brædur. Enn vier villium ei dylia fyrer ydur/ um þa sem sofa/ uppa þad ad þier hryggvest eckert/ so sem þeir adrer ad ongva Von hafa. Þvi ef vier truum ad JEsus sie dauen / og upp aptur risenn / so mun og Gud einnenn þa sem sofnader eru / fyrer JEsum med hönum framleida. Þviad þad

segie

Rigtum ofer ydur / so sem Ord
DRottens / bad vier hvorier ad lif-
um og epter bispu i Tilkomu Drott-
ens / Vier minum eige fyrer heim
koma / sem sofnader eru. Pvi Drott-
en sialfur mun med Hroope / og med
Hofudeingelsins Raust z Lwdre Gu-
ds / ofan kome af Himnum / og hine
er daudu i Christo / skulu fyrst upp-
rijsa. Har epter m / Vier sem lif-
um og epterbijdum / verdum undir
eins uppriffter med hm i Skyj-
en / til moots vid DRotten i Lopt-
ed / og munum so hia DRottne vera
alla Tijma. Har fyrer / hugged nu
hver anan Jnbyrdis / med hessum
Ordum.

Gudsp. S. Matth. 24. C.

Pan Tijma. JEsus sagde
til sina Larefveina: Nær ed
hier sioed Svivirding For-
eydingar ( og hvarie les er fyrer
Spama

Spamasiens Daniel) standande i
Helgum Stad. Hvor sem þad les/
hañ hygge þar ad. Hvorier þa eru
a Gydingalande / flyie þeir a Fi-
øll / Og hvor hañ er a Riæfre /
fare hañ eige ofañ nockud ad taka
wr sijnu Hwse/ Og hvor sem a Ak-
re er/ snwe hañ ei aptur / ad taka
sijn Klæde. Eñ Vei þungudum og
Briostmylkingum a þeim Dog-
um. Eñ bidied/ ad ydar Flootte ver
de ecke um Vetur/ og eige a Þvott-
deige. Þviad þa mun verda so stoor
Hormung/ hvilijk ad eige var i fra
Upphafe Veralldarēnar / allt til
þessarar Stundar / Og ei helldur
mun verda. Og nema ad þesser
Dagar verde styttir / verdur eckert
Holld hiolpad. Eñ fyrer Wtvalldra
saker/ þa skulu þeir styttast. Enn
ef nockur seiger þa til ydar/ Sia ed/
Hier

Nier er Christur eda par/ pa skulud pier ecke pvi trwa. Pviad par munu upprijsa Falschristar og Falsspamen / z peir munu giora stoor Tækn z Undur/ so ad i villy munu leidast (ef skie mætte) eirnen̄ wtvald er. Simed eg sagda ydur þ fyrer. Nu ef peir seigia til ydar/ Simed/ han̄ er a Eydemørku / pa ganged ecke wt. Simed/ han̄ er i Launkorū pa trwed eige. Pviad lijka sim̄ Elldingin wtgeingur af Uppgaungu/ og skijn allt til Nidurgaungu/ lijka so mun og vera Tilkoma Man̄sins Sonar. Pviad hvar hellst ad Hræ ed er / pangad munu og Ernerner safnast.

## Tuttugasta og Siøtta
### Sun̄udag epter Trinit.

Collectan.

Herr þu myskunsame eilijfe Gud/ almattke Fader/ Vier bidium þig ad þu viller uppvekia oss/ So ad vier mættum med allre Astundan framganga/ i Christelegum goodū Verkū/ og faenan styrkiast i þier og i øllum Gudlegum Hlutum. Fyrer hin/ etc.

## Pist. S. Pet. 2. Pistl. 3. Cap.

Oder Bræbur. J Fyrstu þa vited/ ad a Sydustu Dogū munu koma Spottarar/ hvo rier epter þeirra eigenlegum Girndū munu ganga/ Og Seigia. Hvar er Fyrerheit hans Tilkomu ? Þvi fra þeim Deige ad Fedurner sofnudu/ þa blijfa aller Hluter, so sem fra Vpphafe Skepunarennar. Þviad villande er þeim þad hulid/ ad Himnarner eirnen voru fordum Tijd / þar med og Jorden wr Vatnenu / og i Vatnenu stood hū fyrer Guds Ord. Naar þ Heimuren sem i þan Tijd var i Vatnenu yfersplæddur fyrerfoorst. En Himnarner og Jorden sem nu eru/ verda

verda fyrer hans Ord spǫrud / og Eldenum vardveitt til Dags Doom sins ꝛ Tøpunar Ogudlegra Mañ. Eñ þetta eitt sie ydur ohuled / hiner Kiærustu / þad eirn Dagur fyrer DRottne / er sem Þusund Aar / og Þusund Aar sem eirn Dagur. DRotteñ seinkar ecke Fyrerheitenu (so sem nockrer hallda þad Seinkan) Helldur hefur hañ Þoleñmæde vid oss / og vill eige þad nockur forfarest / helldur ad aller snue sier til Yferbootar. Eñ Dagur DRottens mun koma sem Þiofur um Noott / a hvörium Himnarner munu forganga / medur Stoorbrestum / eñ Hofudskiepnurnar af Hita brædna / og Jordeñ og þau Verk sem þar eru iñe / munu uppbreña. Med þvi ad allt þetta skal nu forganga. Hvilikum byriar ydur þa ad vera ? Med Heilogu Framferde og Gudrækre. Bidande ꝛ flytande ydur til tilkomu

Dags Drottens / a hverium Himm-
atuer munu og Elde þorgænga / og
Noþadskiepnurnar og Nita brædna.
Eñ vier væntum epter nyium Himn-
um og nyrre Jordu / epter hans Fyr-
erheite / i hverium Riettlæted bygg-
er. Hvar þyrer myner Kiærustu /
þier sem þess vænted / Kostgiæþed
þad þier þyrer honum Opl-ckader og
Ostraþþanleger i Fridnum fundner
verded. Og Þolenmæde vors Drott-
ens hallded þyrer ydar Saluhiælp.

Gudspialled Matth. 25. C.

A Þeim Dogum. Eñ þa
Mañsins Son mun koma i
siñe Dyrd / og aller Heilager
Einglar med honum: Hann mun
þa sitia a Sæte syns Velldis / og
allar Þiooder munu samañ saþnast
fyrer honum. Og hañ mun þa
sundur skilia hvoria fra ødrum / so
sem Hirder sundur greiner Sauds
fra

fra Kidum / Saudena mun hafi
flicka til sinar hægre Handar / En
Kidenn til Vinstre. Þa mun Kong-
urenn seigia til þeirra sem a hans
hægre Hond eru. Komed þier Bless-
ader Fodur mijns / Og Erfed þad
Rijke sinn ydur var tilbwed fra Upp-
hafe Veralldar. Þviad hungradur
var eg / og þier gaffud mier ad eta.
Þyrstur var eg / og þier gaffud mier
ad drecka. Gestur var eg / og þier
hijstud mig. Nakenn var eg / og þier
klæddud mig. Siwkur var eg / og
þier vitiudud mijn. J Myrkvastof-
fu var eg / og þier komud til mijn.
Þa munu hiner Riettlatu svara
honum / og seigia so: HErra /
hvenær saum vier þig hungradann /
og foddum þig ? Eda þyrstann / og
gaffum þier ad drecka ? Eda hve-
nær saum vier þig Gestkomenn / og

 hijstum

hÿstum þig? Eda Naken og klæd
um þig? Eda hvenær saum vier
þig Siukann / eda i Myrkvastofu/
og komum til þyn? Og Kongurenn
mun svara / og seigia til þeirra.
Sannlega seige eg ydur / Hvad þier
giordud einum af þessum mijnum
minstu Brædrum/ þad giordud þier
mier. Þa mun hann og seigia til
þeirra sem til vinstre Handar eru:
Farid burt fra mier þier Bolvad
er i eilÿfann Elld / þann sem fyrer
buenn er Fiandanum og hans Ein
um. Þuiad Hungradur var eg / og
þier gaafud mier eige ad eta. Þyrst
ur var eg / og þier gaafud mier ei
ge ad drecka. Gestur var eg/og þier
hÿstud mig eige. Nakenn var eg/og
þier klæddud mig eige. Siukur og i
Myrkvastofu var eg/og þier vitiu
dud mijn eige. Þa munu þeir hon
um

um svara / og seigia og Eirnenn. HErra / Nvenær saum vier þig Hungradañ eda Þyrstañ/ Gest eda Naket/ Siwkañ edur i Myrkvasto fu/ og hosum þier ecke Þionad? Þa mun hñ svara þeim og seigia: Sañlega seige eg ydur/ Hvad þier giordud eige einum af þessum enum minstu/ þad giordud þier mier ecke. Og munu þeir þa ganga i eilijfar Pijsler/ eñ Riettlæter i eilijft Lijf.

## Tuttugasta og Siounda Suñudag epter Trinit.

### Collectan.

O Myskunsame eilijfe Gud/ Himneske Fader/ Vier biðium þig/ ad þu vilier uppvekia oss/ ad vier med ollre Rostgiæfe mættum ganga Christelega i godum Verkum/ og alltijd skyrkiast fyrer þig og þundner verda i allre Gudrækne/ Fyrer þin/ etc.

Pist. S. Pet. 2. Pistl. 1. Cap.

Elskuleger Brædur. Fyrer þvi
vil eg eige undanfella ad ámin-
na ydur jafnlega um̃ þetta/ þo
ad þier vited þad/ og erud stirkver i
nálægum Sañleika. Þviad eg hygg
þad riettelegast/ so leinge sem eg er i
þessare Tialldbwd/ ad uppvekia yd-
ur med Amiñingum. Þviad eg veit
þad/ ad eg hlijt snarlega þessa mijna
Tialldbwd af ad leggia/ so sem vor
Drotteñ Jesus Christur hefur mier
Opeñberad. Eñ eg vil Kapps um̃-
kosta/ þad þier (epter mijna Utfør)
jafnañ hefdud slijkt til miñis ad hall-
da. Þviad eige høfum vier þeim
Dæmafroodũ Fræsøgũ epterfilgt/
þa vier giørdum ydur kuñañ Krapt
og Hingadkomu vors Drottens Je-
su Christi. Helldur høfum vier sialf-
er sied hñs Vegsemd/ þañ Tijd hañ
a[illegible]ode Fødur medtook Dyrd og
H[illegible]/ þar ed þess hattar Raust til
hñs skiede/ af mikellegre Dyrd. Þesse
Ex

Er Miñ Elskulegur Sonur / Af
hveriū mier vel þocknast. Og þessa
Raust þa heyrdum vier ap Himnum
verda / þa vier vorum med honum
uppa Fiallenu Helga.

Gudspialled S. Matth. 17. C.

A þeim Tyma. Og sex Dog
um þar epter/ took Jesus med
sier Petrum og Jacobum/ og
Johañem Brooder hañs/ og hap-
de þa apsydes uppa hatt Fiall/ og
ummyndadest fyrer þeim. Og hñs
Asiana skein sem Sool/ Eñ hañs
Klæde urdu so biort sem Lioos. Og
sia / ad þeim byrtust þeir Moyses
z Elias/ z toludu vid hñ. Eñ Pet
ur ansade og sagde til Jesu. Herra/
hier er oss gott ad vera. Ef þu villt
þa vilium vier giora hier þriar
Tialldbuder / Þier Eina/ Moyse
Eina/ og Eliæ Eina. Og þa hañ

Þar þeckia ad tala / Sim / ad biart
Ský umskyggde þa. Og Sim / ad
Røddeñ wr Skÿenu sagde: Þesse
er Sonur miñ Elskulegur / ad hvor
sum mier velþocknast / hlýded þier
honum. Og er Lærisveinarner hey
rdu þad / þiellu þeir fram a sÿnar
Asioner / og urdu miøg hrædder.
Eñ JEsus gieck til þeirra / Toock
a þeim / og sagde: Standed upp /
og vered ei hrædder. Eñ þa þeir
litu upp / sau þeir aungvañ nema
Jesum alleinasta. Og er þeir geing
gu ofañ af Fiallenu / baud Jesus
þeim / og sagde: Þier skulud aung
vum þessa Syn seigia / þar til ad
Mañsins Son / er upp aptur
risen fra Daudum.

Ender Gudspialla og Pistla
Aared um Krïng.

Þegar

unni stood JEsus i Fiørunne. Enn Lære-
sveinarner vissu ei ad JEsus var þad.
JEsus sagde til þeirra: Børn/ Hafed
þier eckert ad Eta? Þeir svørudu hønt-
um: Ney. Enn hann sagde til þeirra:
Kasted wt Netenu a hægre Sydu Skip-
sens/ og munud þier finna nockud. Þeir
vorpudu wt/ og gaatu ei dreiged fyrer
Fiølda akker Fiskanna. Þa sagde sa Lære-
sveinn til Peturs/ sem JEsus elskade:
HErrann er þad. Enn þa Simon Petrus
heyrde þad/ ad HErrann være þad/ vafde
hann um sig Skyrtunne/ þviad hann var nak-
kenn/ og varpade sier wt a Siooenn. Enn
adrer Lærefveinarner komu a Skipenu/
þviad þeir voru ei langt fra Lande/
helldur nær Tvø Hundrud Alna/ og
drogu Neted med Fiskunum. Og er þeir
stigu a Land/ sau þeir Elldsglædur/ og
Fisk yfer lagdann og Braud. JEsus seig-
er til þeirra: Færed hingad af þeim Fi-
sku/ er þier feingud nu. Simon Petrus
stood upp/ og droo Neted a Land/ fullt
af stoorum Fiskum/ Hundrad fimmtyger og
þrimtyge. Og þo þeir være so marger/ þa
rifnade þo eige Neted. JEsus seiger til
þeirra/ Komed hier og snæded: Enn einginn
Lærisveinanna þorde ad spyrja hann ad/

hvør

hrør ertu? Þeir ad þeir vissu ad, þad var
HErran. Þa kom JEsus og took Brau
ded/gaf þeim þad / og lyka eirnen Fiski
nn. Þetta er nu hid þridia Sinn/ er JEs
sus Opinberade sig synum Lærisveinum/
epter þad han var Uppriesen af Dauda.
Þa þeir høfdu nu snædt/seiger JEs
sus til Simonar Petrus: Simon Jona
elskar þu mig meir enn þesser? Han sagde
hønum: Ja HErra/þu veist ad eg elska
þig. Han sagde þa til hans : Fød þu
Lømb myn. Enn seiger han ånnad Sinn
apttur til hans: Simon Jona elskar þu
mig? Han seiger hønum: Ja HErra/þu
veist eg elska þig. Han seiger til hans:
Fød þu Saude myna. Han seiger enn apt
tur i þridia Sinn til hans: Simon Jona
Elskar þu mig? Þa hrigdest Petur vid/
þvi han sagde i þridia Sinn til hans/ Elk
skar þu mig? Og han sagde til hans:
HErra / þu veist alla Hlute / þu veist
ad eg elska þig. JEsus seiger til hans:
Fød þu Saude myna. Sannlega/Sannlega/
seige eg þier/ þa þu varst Ungur/ gyrtt
er þu sialfur þig / og gieckst hvert þu
villder/Enn þa þu Eldest/ muntu þynar
Hendur utbreida/ og annar mun þa gyrr
da þig/ og þangad leida sem þu vill ei

ge. En þetta sagde hann/ Teiknande med hvørium Dauda hann skyllde Gud dyrka. Og þa hann hafde þetta sagt / seiger hann til hans: Fylg þu mier epter. Þa snere Petur sier vid / og leit þann Lærisvein Epterfylgiande/ sem JEsus Elskade/ sa er og um Kvølldmaaltydena hafde a hans Briooste legid / og sagt: HErra/ Hver er sa er þig mun forraada? Þa Petur leit þennan/ seiger hann til JEsu: HErra/ hvad skal þa þesse? JEsus seiger til hans: Ef eg vil ad hann blyfe til þess ad eg kiem/ hvad kiemur þad vid þig? Fylg þu mier epter. Þa gieck sw Ordræda wt a medal Brædranna/ Þesse Lærisveinn deye eige. Og JEsus sagde eige til hans/ hann deye eige/ helldur ef eg vil ad hann blyfe til þess eg kiem/ hvad kiemur þad vid þig? Þesse er sa Lærisveinn/ er um þessa Hlute ber Vitne / og þetta skrifade/ og vier vitum ad hans Vitnisburdur er sannur.

En þeir Ellefu Lærisveinar geingu i Galileam a eitt Fiall / þad er JEsus hafde þeim fyrerskipad. Og er þeir sau hann/ tilbaadu þeir hann/ en nockrer efudu þad. Og JEsus gieck til þeirra/ talade vid þa og sagde: Allt Vald er mier

giefed

giefed a Himnum og a Jørdu/ fyrer þui
Ganged þier wt um allan heimen/ Prediked Evangelium allre Skiepnu/ og kiened øllum Þioodum/ og Skyred þær i Nafne Fødur / og Sonar / og Heilags Anda/ og kiened þeim ad hallda allt hvad eg baud ydur. Hvør han Trwer og verdur Skyrdur/ sa skal hoolpen verda/ en hvør eige Trwer/ han skal fordæmast. En Teiknen er þeim munu fylgia sem Trwa/ eru þesse: J mijnu Nafne munu þeir Diefla wtreka/ nyar Tungur tala/ Høggorma upptaka/ og ef þeir dreka nokud Banvænlegt/ skal þad þeim eige granda/ yfer Siwka munu þeir Hendur leggia/ og þa mun þeim batna. Og siaed/ Eg em med ydur alla Daga/ allt til Enda Veralldar. Þar epter var han siedur af Jacobo, (1. Cor. 15.)

(En) han vard uppnumen/ epter þad han hafde Postulunum Befalning giefved ( hvøria han hafde wtvaled ) fyrer Heilagan Anda / hvørium han tiede og siælfan sig Lifanda epter Pijsl syna / i marghattudum Bevijsingum/ og liet þa siaa sig um fiøruttiger Daga/ talande fyrer þeim af Guds Ryke. Og sem han hafde þeim samansafnad/ baud han þeim

ad þeir vike eige wt af Jeruſalem/helldur ad þeir ſkylldu byda epter Fyrerheite Fødurſens / og ſagde : Stæed ad eg vil ſenda yfer ydur Fyrerh-eit mijns Fødurs/ ſem þier hafed af mier heyrt. En þier ſkulud vera kyrrer i Borgeñe Jeruſalem/ þangad til ad þier Jklædeſt Krapte af Hædum. Þviad Johañes ſkyrde med Vatne / En þier ſkulud med Heilegum Anda ſkyrder verda/ei længt epter þeſſa Daga. En þeir ſem þar voru tilſamans komner/ſpurdu hañ ad/og ſøgdu: 6 Ertu / Viltu nu a þeſſum Tyma upprietta aptur Jſraels Ryke ? En hañ ſagde til þeirra: Ydur ber ei ad vita Tyma edur Stunder/ hvørjar Faderen ſette i ſialfs ſyns Vallde / helldur munud þier ødlaſt Krapt Heilags Anda / þeſſ er yfer ydur mun koma/og þier ſkulud myner Vottar vera til Jeruſalem/ og i allre Judæa og Samaria/og allt til Jardarēñar Enda.

En hañ hafde þa wt / allt til Bethaniam / og hoof upp ſynar Hendur og Bleſſade þa. Og þad gjørdeſt/ad epter þad Drottenn hafde talad vid þa/þa hañ Bleſſade yfer þa/ og ſagde þetta/ad hañ ſkilde vid þa / og var þeim aſiaendum Oppnumeñ/og eitt Sky took Hañ upp i-

burt

burt fra þeirra Augum/ og (han̄) vard upp i Himenen̄ og situr til Guds hægre Handar/ en̄ þeir tilbaadu han̄. Og er þeir horfdu epter hønum / til Himens uppfarandi/ sia/ þa stoodu Tveir Men̄ hia þeim i hvijtum Klædum/ hvørier og sǫgdu/ Þier Men̄ wr af Galilea / til hvørs standed þier og horfed upp i Himenen̄ ? Þesse JEsus sem uppnumen̄ er fra ydur til Himens/ mun koma/ lyka sem þier saaud han̄ til Himens uppfara. Þa sneru þeir aptur til Jerusalem med miklum Fagnade / af Fiallenu þvi sem kalladest Vidsmiørs Vidar Fiall/ hvørt ed er nærre Jerusalem og liggur eina Sabbathsdags leid þadan. Og er þeir komu in̄/ geingu þeir upp i Loptid og voru þar: Petur z Jacobus z Johan̄es z Andreas/ Philippus og Thomas / Bartholomæus og Mattheus/ Jacobus Alphæi son og Simon Zelotes og Judas Jacobi. Þesser voru aller med einum Huga støduger i Bæn og Akalle med Kvin̄unum og med Mariu Mooder JEsu og hans Brædrū. Og voru alltyd i Musterenu lofande og vegsamande Gud.

A þeim Dǫgum / stood upp Petur a mille Lærisveinan̄a og sagde ( En̄ Flocke

[illegible]ek ad Nafne/ var nær Hundrad og tut-
tugu til samans/ Þier Men og Brædur/
Þeirre Ritningu byrjade upp ad fyllast/
hvøria heilagur Ande ådur fyrer sagde/
fyrer Munn Davids / vt af Juda/ hvør
ed var þeirra Leidtogare / er JEsum
höndludu/ þvi han var talen med oss/ og
hefde medtekid þetta Embætte med oss.
Þesse hefur vtvegad Akuren fyrer orett-
ferdug Verdlaun/og heingde sig/ og er i
midiu sundur i Tvo Hlute brosten / og
hans Jnnyfle eru øll vthlaupen. Og þad
er øllum kunnugt vordid/ þeim er i Jeru-
salem byggia/ so ad same Akur er kall-
adur a þeirra Tungumæl/ Hakeldama/
þad er Bloods Akur. Þviad so er skrif-
ad i Psalmabookinne. Hans Setur skal i
Eyde vera/og eige sie sa nockur/ sem þar
inne bygger/ og hans Byskupsdoom med-
take Annar. Fyrer þvi skal nu Eirn af
þeim Mønnum sem alla Tijma hafa med oss
vered/ fra þvi er DRotten JEsus took
ad ganga vt og inn vor a mille/fra Skij-
rn Johannis/allt til þess Dags er hn var
Vppnumenn i fra oss / vera Eirn Vottur
hans Vpprisu medur oss. Og þeir settu
til tvo/Joseph þan er hiet Barsabas ad
vidurnefne Just/og Matthiam. Bæ-

du og ſøgdu: Þu DRottenn ſem þeck[illegible] Hiertu / Syn hvørn þu hefur utvaled af þeſſum Tveimur/ ſo ad Eitt medteke þeſſa Þionuſtu og Poſtula Embætte / fra hvøriu Judas er affallenn/ þad hann være burt i ſinn Stad. Og þeir løgdu Hlute yfer þa / og Hluturenn fiell yfer Matthiam/ og hønum var ſkickad til þeß fra Ellefu Poſtula. Og þeir geingu ut og predikudu allſtadar /og DRottenn var ſamverkande med þeim/ og ſtadfeſte Orded fyrer medfylgiande Teikn.

## Ender Uppriſu og Uppſtigningar Hiſtoriunnar.



# Ein góòd Bæn og Packar giord yfer Christi Pijnu og Dauda.

Herra JEsu Christe/ þu Israels Huggun og Traust / Vor Heill og Hiælp a Jardrijke. So opt sem eg aumur Syndare hugsa um̃ þijna særu Rezsing og Blooduga Krijning: er mijnu Hiarta sem þad heire til þijn/ miñ Lausnare/ Veinande og Kveinande þar vid Stoolpañ i Doomhwsenu. Eins og lijka sie þad þig Kvijdande vid hvoriu Hogge / og Emgiande þig samañ af þeirre særu Barsmijd og Lemstran/ Og hvorneñ þu varst þar ollur Blaar og Bloodrisa / ja/ Bloodmareñ & Undum krameñ i sundur. Æ / hvad Amiñelega lijtur þu til mijn

mijn aums Syndara. Eg ottast z hrædest/ Lausnare minn/ ad eg hefe margann Nywtenn hngtt a þijnar Nidingar Svipur/ og þitt H. Hofud/ med morgum hvoßum Synda Þyrne nijst og stunged/ Ja/ einnenn med þijnu Kvolum margre Synda ann Opeckt/ i þitt heilaga Andlit varpad og þrijst. — Hrinntu Lausnare minn ecke vid mig epter Syndum mijnum/ og giallt þu mier ecke epter Misgiordum og Rangláte mijnu. Minnstu ecke a Iduskn og Synder mijns Vngdooms/ Ja / hvorke Ingra nie Elldra/ helldur lat mig þeirre kreptu Huggun na/ at þessum Kvolum z Pijslum. Gief þu mier minn trwe z trauste Endurlausnare/ ad þa þeir skorpu Angistar Broddar og Þyrner stijnga og særa Samvitsku mijne

wa / eñ Satan stat og lemur / ad pijner H. Blooddropar og Blood-læker / sem þu i Repsinguñe og Krijninguñe / sem optar / leister og wtheilter / liggie og nære miña au-mu Sal. Og þa Diofulleñ kallar uñ mig / sem þar uñ þig / Ecce Homo. Sia / hvilikur Avextur ertu ordeñ? Hvad vel hefur þu fyr-erstied? Til hvors hefur þu usted? Kalla þu þa aptur i miñu Hiarta / Ecce Homo. Lijt til miñ / Salus tua ego sum. Eg er þijn Heill og Hialp. Hafdu mig under þiñe Pur-pura Kapu / og skijldu mier so / þvi þa er eg oskijdeñ fyrer Guds Riettlætes Reide og Helvitis allre Magt. Drepp þu a mitt auma Hi-arta einum þijnum H. Blooddro-pa / sem þu misster / edur af þier rañ

i Doomhwſenu / þa er mier æfeſ-
lega hætt og gott / þvi eg veit og
trwe/ ad minſte þiñ Bloodrope er
verdugre og dyrare eñ Veralldar
allar Synder. Eñ a medal
þeſſara og añara Orda / ſie þier
tilſyþ Hiartans Þock / miñ Hiart-
ans Bloodbrudgume / og þa myn
ſeinaſta Stund er komeñ / þa vertu
mier ſo þ Augū z Stoonū / z gief
ꝯ þyna Naad / ad ey eg ætte þinna
vegna nockra Þyrna ad kieña / eda
Hlogur og ſæringar ad lijda/eda ey
Verolld af ſinum wlæti aþ Naa-
de og ſpotte/ og ødru ad kaſte upp a
mig hlæde / ad eg þa fyrer Krapt
þeſſa þijns dyra og H. Bloods/ mz
allre þolenmæde þeſſum þynū Foot
ſporum fylgie/ og alla myna Dri-
ne ſo yferviñe/ og ſo þvi himneſka

þynu

pßnu Fridlande nme/ Amen. Mitt Lausnare fyrer pitt Blood z bless-
ader Under/ Amen/.

Amen.



Ein Almeñeleg

# Handbook

Fyrer Einfallda Presta / Hvorneñ Börn skal skijra / Hiona samañvigia / Siwkra vitia / Framlidna Jarda / og nockud fleira sem Kiennemannlegu Embætte Vidvijkur.



1. Corinth. 14. Cap.

Latid alla Hlute Sidsamlega og Skickanlega framfara ydar a mille.

# Vt af Skijrnar Embætt-enu / Ettel Vnderwijsan.

BOrnenn skulu skijrast i Mood-urmaale/ so aller skilie þeir sem hia eru. Og alleina i Fontenum/ sem gamall og Christelegur Vane er/ enn ecke i Munklaugum edur ødrum Otterlegum Koppum edur Kierum. Børnenn skulu med øllu nakenn vera / ef ad þaug eru Osiuk/ og skal Skyrnarpadrenn taka þad a Hønd sier yfer Fontenum / og ausa þad Vatne Þrisvar.

I Nafne Fodurs/ og Sonar/ og Anda Heilags.

Enn sieu þau miøg veik / þa skal þau Ber giøra i Kryfnum allt ad Herdum/ og ausa yfer Høfuded/ So ad Vatned renne ofan epter Barnenu.

Prestar skulu og so giæta ad / þegar Frost er og Kullde / ad Vatn sie varmt giørt/ so Barnkorned fae ei Skada af Kulda / þvi ei hæfer ad þvi sie til nockurs Hættu stofnad þar med / sem Gud hefur tilskickad þeim til Heilsubootar Lijfs og Saalar.

Nu sem Barned kiemur til Prestz/ þa

þa spyr hañ fyrst ad / Hvørt Barn. þad er / Og hvørt þad er ei adur Skyrdt / og hvad þad skal heita. Sie Barned ei skyrt adur / Elligar og ef hønum lyst þad ei Rettelega skyrdt vera / þa skal hañ skyra þad / so sem Eptersylger / Hvad Eingeñ Skyrn skal vera med Forordt i Christilegre Kyrkiu.

Fyrst og fremst skal Prestureñ kuttlega med þeim Ordum / þo krøptugum utskyra fyrer þeim sem vid eru staddir / hvad dyrmætur Hlutur Skyrneñ hun er / og ad þeir giefe Gætur ad / hvad þeß Barnenu er talad og lesed. Þeir skulu og tilneñ med Prestenum bidia til Guds og tala med hønum øll þau Bænar Ord / sem leseñ verda. Þar fyrer skulu Prestarner þessar Bæner lesa seint og skilmerkelega.

Prestarner skulu og vanda / ad ei sieu Dreinger edur Børn til Gudvægina tekeñ / Helldur Sidsamer Frooner Meñ / so slyk Pioonustugiørd sie þramen med Tilheyrelegre sañre Virdingu / so sem i Auglite allrar Heilagrar Þreñingar / eñ i aungvañ Mata mz Gaman / Giemsne edur Leikaraskap nockrum. Þad være og Sticksanlegt / þar sem þvi verdur vidko-

med

verd med Goodvilldu / og ef Børnen eru heilbrygd/ ad þau sieu skyrd a Sun̄udeige a Soknarkyrkiun̄e/ i Messun̄e. Skyrnar Embættenu til Heidurs. En̄ verde þad ecke giørt fyrer Forfalla Saker/ þa skulu þo Prestarner saman̄ kalla alle Foolk þad a Bænum er / ad sem flester sieu vid þessa Þioonustugiørd. Presturen skal klæddur Ryckelyne/ til Heidurs vid Sacramented. Og ad Skyrdu/ þa mā Presturen̄ giøra þessa Aminning/edur ødru fra þvilyka/fyrer Gudfedginum og þeim sem vid Skyrnena eru staddir/adur þad Skyrer Barned.

Elskuleg Systkin i Gude. Hversu dyrmætt þetta haleita Sacramentum er/ þad kan̄ eingen̄ vel ad skyra nooglega/En̄ þo skulud þier sierdeilis og einkum / afhuga þessar Eptirfylgiande Greiner.

1. Fyrer þetta dyrmæta Sacramentum Skyrnaren̄ar / verda vor Børn in̄teken̄ i Samfundu heilagrar Christne / til þess ad þau verde Hluttakande allra þeirra Velgiørninga/sem

vor

vor HErra JEsus Christus gefur
sine elskulegre Brwdur / hvar od er
su Christeleg Kyrkia / eñ Welgier-
ningarner og Gjafurnar eru þesser/
Fyrst Heilagur Ande / Syndanna
Fyrergiefning / og þad eilijfa Lijf.
Þar fyrer seiger S. Paull so / Vier
sem erum skyrder / vier iklæduniz JE-
su Christo. Þad er ad skilia / Vier
erum Christner / og allt þad JEsu
Christo tilheirer / þad er orded vort
Gal. 3.
2. J Skyrneñe / fyrer Orded / ver-
dum vier Guds elskuleg Born / og
lifande Bwstadur og Mustere hins
Helga Anda / hreinsr og klarer af
øllum Syndum / sem vier erfdt hefo-
um epter vora Forelldra. Þar fyr-
er seiger vor HErra JEsus Chri-
stus sialfur so. Nema þvi ad eins ad
Madureñ Endurfæddest af Vatne og
heilogum Anda / þa kañ hañ ecke iñ
ganga i Guds Ryke. Joh. 3.

3. J

3. J Skijrnene verdum vier Andlega Jardader og upprysum af Daudа/med vorum HErra JEsu Christo / til ad lifa i einum nyum Lifnade/ uppa þad/ad vier skulum eilijflega med honum lifa/ Rom. 6.
4. J Skijrnene fyrer Orded verdum vier Erfuloþader og Fester JEsu Christo vorum HErra / ad vier skeum hans flecklaus Brude / og samteingiunst honum i Dyrdene / Heilagleikanum og ostraffanlegu Framferde/ Eph. 6.
5. Fyrer utan alla Verdskulldan vorra Verka/alleinasta ut af skiærre Nad og Myskun/gieter Gud oss Saluhoolpna/ fyrer Endurfædingar Skijrnena / og Endurnyan heilags Anda/ hvorium heilegum Anda Gud Fader fyrer sin Eingieten Son/ vorn HErra JEsum Christum yfferflootanlega uthellet yfer oss / uppa þad / þa vier erum so

Riettlæter vordner af hans Naad og Miyskun / mættum vier verda Erfingiar eilijfs Lijfs / Tit. 3.

Og nu uppa þad good Syskin / ad þetta Barn mætte odlast slijka Naad / þa vilium vier nu alvarlega akalla og bidia Gud Almattugann / þviad Dioffullenn sem er allra Christenna Manna / og þeirra Saaluhialpar Ovinur / hann gierer sier eckert ad Gamne vid oss / i moote hverium ydur byriar nu ad standa / med sannre Trw og alvarlegre Bæn til Guds / vegna þessa Unga Barns.

Naar Aminningenn er endud / þa bidur Presturenn Gudfedginenn ad nefna Barned. N.

Þar epter seiger hann.

Far wt hiedann þu Ohreine Ande / z gief Rwm Heilogum Anda.

Sijdann giører hann eitt Kross a Enne og Briosti Barnsins / og seiger.

Med

Medtak þu Teikn hins Heila-
ga Kross/ bæde a Enne z a Brioste-
fter vilium Blota.

ALmattuge Eilijfe Gud/ Fader
Drottens vors JEsu Christi/
Eg akalla þig fyrer þennan þinn
Þienara/ N. (þessa þijna Am-
batt/ N.) sem bidur um þijna
Skijrnar Gaafu/ og girnest þijna
Eilijfa Naad/ fyrer þa Andlegu
Endurfæding. Medtak þu hann
(hana) Drotten/ Og so sem þu
hefur sagt/ Bidied og munud þier
medtaka/ Leited z munud þier finna/
Knuied a/ og mun fyrer ydur uppe
lokad verda. So gief nu þad gooda
þeim sem bidur/ og lat upp Dyrn-
ar fyrer þeim sem aknýr/ ad hann
(hun) edlest Eilijfa Blessun þess
Himneska Laugar/ og med-
take Fyrerheited/ Rijke þinar Gu-
F f

þu / fyrer JEſum Chriſtum vorn DRottenn.

Hier til ſkulu Gudfedginen̄ Svara

AMEN.

Preſturen̄ Seige.

Latum Oſſ Bidia.

Almattuge Eilijfe Gud/ þu ſem med Strӕdu þijns Riettlatis/ hefer med Vatns Floode fyrerdӕmt hina Vantruudu Verolld/ og med þijne mikellre Myſkun / Frelſader hiñ trwlynda Noa/ og atta Sal-er med honum / og dreckter himum hardhuga Pharaone / med ollum ſijnum i Hafenu Rauda/og flutter þiñ Lijd Iſrael þurrum Footum þar i giegnum / þar med teiknande þa heilogu tilkomande Skijrn / og fyrer Skijrn þijns elſkulega Son-ar DRottens vors JEſu Chriſti/ hefur þu bꝍde Jordan og oll Vatn

D heiged/

helgad/ og iñsett til Sialpsamlegs Bloods/og rijkuglegrar Hreinsunar Sindañá. Vier bidium þig þyrer somu þijna oseigianlega Myskunsemi/ ad þu virdest þeñañ N. nadaglega ad alijta/og hañ med riett tre Trw ad giæda / ad þyrer þessa heilsusamlega Vatnslaug/ drecktest af honum og mæest / þad allt sem honum er af Adam medþædt / og hañ sialfur þar til vertad hefur/ og ad hañ (hun) af Tolu Vantrwadra Maña frawskiliñ/ J Ørk Heilagrar Christne/ Þurr og Øruggur vardveittur verde / jafnann med gloande Anda og gladværre Von/ þijnu Nafne þione/ so hañ med ollum Trwlyndum makłegur verde / ad odlast Eilijft Lijf þijns Fyrerheitis/ Fyrer J Esum Christum/ Vorn DRottenn.

Gud/

Þat Fyrer Beiger Styrepaderen.

Eg Bære þig þu Ohreinn Ande/ J Nafne Guds Fodurs og Sonar/ og Heilags Anda / Ad þu wtfarer og burthverþer aþ þessum Þienara J-su Christi/ N. Amen.

Textum Oß heyra bad 6. Evangelio um sem Marcus skrifar.

Þ Þaß Tijma/Færdu þeir Bórn til JEsu/ ad hann legde Hendur yfer þau/ en Lærisveinarner ætlodu þa sem þau leiddu. Og er JEsus sa þad / Lykade honum þad eige vel / Og sagde til þeirra: Leyfed Bornunum til mijn ad koma / og banned þeim þad eige/þviad þvilijkra er Guds Rijke. Sannlega segee eg ydur / Hver hann medtekur ecke Guds Rijke/ sem annad Ungbarn/ Sa mun eige inngaanga i þad. Og

hañ took þau i Fang/ og lagde ſin-ar Hendur yfer þau / og Bleſſade þau.

Sijdan legge Preſturen ſijnar Hendur a Höfud Barnſins og bidie/ jafnt Gudfedginum/ med Rutepall:/ Og Seige:

FADer VOR / etc.

Leide ſidan Barnkorned ad Skijrn-ar Sænum / Og Seige:

DROTten hañ vardveite þiñ Jñgang og Utgang/ Nu hiedan i fra/ og ad Eilijfu.

Gudfedginen Seige AMEN.

Sijdan læte Preſturen Barned fyrer ſin Gudfedgin/ afneyta Diöflenum/ og Spyrie Svo.

N. Afneytar þu Diöflenum?

Andſvar: Ja.

Og öllum hañs Verkum?

Andſvar: Ja.

Og öllu hañs Athæfe?

Andſvar. Ja.

Sijdañ

Trwer þu a GUD FÖDur Almættugañ / Skapara Himens og Jardar ?

Andsvar: Ja.

Trwer þu a JEsum Christum hañs Son eingieteñ DROTT:ñ vorn / Gieteñ af H. Anda / Fæddañ af Mariu Meyu / Pijndañ under Pontio Pilato / Krossfesteñ / Lijflateñ og Grafeñ / Niðurstijgeñ til Helvijtis / Vppriseñ af Dauda / Vppstijgeñ til Himna / Sitiande til GUDs Fodurs hægre Handar / þad-añ Komande ad Dæma Lifendur og Dauda ?

Andsvar: Ja.

Trwer þu a Helgañ Anda / og ad er ein heilog almeñeleg Kyrkia / Samneyte Heilagra / Fyrergiefn-

ing Syndaña/ Hollđsins Vpprisu/ og epter þetta Lijf/ eilijft Lijf?
Andsvar. Jaa.

N. Villtu verda skijrdur? (skijrd)
Andsvar. Jaa.

Sijdañ take hañ Barned/ dyfe þvi i Skijrnar Vatñ/ eda ause þad vatnenu/ og giøre þetta med miklum Athuga/ þvi hier wti skal leita Barnsins Velferdar/ eñ ecke Skada/ og seiger Prestureñ á meðañ.

# N. Eg Skijre þig i Nafne Føðurs/ og Sonar/ og Heilags Anda.

Guðfedgineñ meiga hallda Barnenu þa Fontenum/ so leinge ad Presturenn færer þad i Skijrnar Klæded/ (Kuplen) sem vanalegt er/ sijdañ lese hañ þessa Bæn.

Almattugur GVD og FADer vors DROttens JEsu Christi/ sem þig hefur endurgieted ypper

er Vatn og Helgann Anda / og hef-
ur þier allar þijnar Synder fyrer-
gieꝼed / Hann styrke þig med sinne
Nꝼad / Til Eilijfs Lijfs / Amen.

FRIdur Sie Med Þier / Amen.

Aminning til Gudfedgina epter
Skijrnena.

MEd þui Þid erud Gudfedgin
þessa Barns / þa erud Þid uppa
Guds vegna og ydar Embættis /
skylldug þessu Barne / Fyrst ad bera
Vitne um / ad þad hefur medteked
Skijrn og Christne / og ef Forelldra-
rar þessa Barns kuña fra ad falla /
edur eñ Barned kiemur til Logalldꝛ-
urs / þa eiged Þid ad kieña Þui sijna
Christeleg Fræde / Tiju Bodorden /
Credo / Pater noster / Jñsetningar
Ordeñ Sacramentaña beggia / Og
añad þad sem Barnsins Saluhialp
aꝼhrærer / ef ad Þid erud Barnenu
nalæg.

næsæg. Seiged Fødur og Moodur / ad þau uppfræde Barned i Guds Otta og goodum Sidum.

GUD Hallde Sinne Blessan yfer Oss / AMEN.

EF Barn þad kiemur til Prests / sem Vndur er Skyrdt / Og virdest þeim um Riett Skyrdt / þa skal þad i aungvann Mata Endurskyra / þvad ecke er utann Ein Skyrn / Eph. 4. Alleinasta skal hann telia fram Erwargreinernar i Spurningum / sem Sidur er til / og Evangelium Marci / Lese Fader Vor med Kniefalle. Sydann skal hann seigia til þeirra sem hia eru / og sierdeilis til Gudfedginanna / hvør ia Forelldrarner hafa Tilsæinged.

Good Systkin / Þetta Barn er nu undur Skyrdt / og hefur allareidu medtekid helgann Anda / med Synodanna Fyrergiefning / Fyrer þvi skulum vier þad ei Endurskyra. Og skulud þid Gudfedgin hier um / fra mat øllum ødrum Vitne bera / og

Þacker

Þacker giora Gude DROttne vörd-
um / sem Þad hefur til Naadar tek-
ed fyrer Christum.

Þar Epter seiger hañ til Barnsins:

GUD hañ vardveite þiñ Jñ-
gang og Utgang / Nu hiedañ i fra
og ad Eilijfu / AMEN.

Gudfedginen Seige: AMEN.

Bidie þa enn Sijdustu Bæn / sem til
er giørd / medañ hañ færer Barned i
Skijrnar Klæded.

Almattugur Gud / og Fader vors
DROTTens JEsu / etc.

Þar Epter seige hañ til Gudfedginanna:

Saker Ockars / etc.

## Hier Epterfilger ad vitia Siwkra / z giefa þiñ þa heilogu Aplausn z Sacramentũ.

AD vitia þeirra sem liggia a sinne
Sootttar Sæng / er Gude miøg þæge-

legt / og sialfur Christur hafi vill a hinum sydasta Deige minast þessa Verka/ so sem hafi seiger/ Matth. 25. Þar byrer skulu aller goodfwsleg a vitia þeirra Siu ku / þa þeir eru þar um bedner / Styra þeim Huggun og Vnderuysan og Sacramentum / med ødru þvi sem aliggur/ a þeirra Hatt sem Epterfylger.

Nær Prestureñ er nu kalladur/og kemur til hins Siwka/þa skal hañ fyrst og fremst athuga / hvørnenñ sa same hefur hegdad sier/hvørnenñ hañs Lyf og Framferde hefur vered/hafe hañ Trwadur vered/Guds Ord elskad/uppa þad ad prestureñ kuñe þess helldur og betur ad undervysa hønum / aminna og Leidriettá hañ/ epter þvi sem hañ þa heyrer og formerker/ og þeir sem eke betur kuña/þa meiga þeir þad giøra a þeñañ Hatt.

Jære Brooder (Syster) vær skulum sem hlydner Pioonar og good Børn/alla tijma/bæde i Heilsu og Krankleika setia vorn Vilia i Guds Vilia Vors Himneska Foodurs/ sem skapad hefur Himen og Jerd oss til gooda/ hañ hefur og

og sende Son sitt oss til Lausnar / han hefur og lofad oss (ef vær erum i Trwne) eilifu Lijfe & Rijke Him naña / han wt vegar oss Hreinleika / & all Skickanlegheit / so vær sierdeilis a Vitiunar Tijmanum / i aungvum Nookum i Opolenmæde / setium oss i moote honum / fyrst vier hofum miked gott af Gude þeiged / so ad hū hefur oss ei golded epter vorre Fors þienan / helldur umfram han oss Fød urlega til Idranar og Yferbootar / þvi skulum vier þa ecke bera nockurn Part Krossens og Mootlætesins & þar sem vær hofum miklu meira forþienad / ef han villde oss / so sem synd uga streingelega wtskurda / eda þol villium vier ecke med allre Alwd og Undergiefne hans Vilia liwflega medtaka / og giefa oss ad skilia þar vied / ad vier verdum ei fundner Os packlater / þar sem ad Christur Guds Sonur hefur drucked fyrer oss þann

þań beiſka Kaleik Pynuñar og Dauð
ans. Þar byrer kiære N. Bertu
Nughrauſtur og trauſtur i G Jos
Myſkunſeme/Og ſo ſem vær ættum
alltijd ad vera Vakande og Reidubu
ner bunduer/nær hań kiæme/ ſo vier
mættū med hinum Vijſu Jungfru-
nū moote hønū ganga/ & ecke rauvd-
uger edur Oſkickanleger vera. Vier
erum i þeſſare Eymd Pilagrijmar/&
ecke añats eñ Vtlendér/hafande hier
onguañ Stad,uie Veru / eñ vort
Fødurland og Heimkiñe/ er i Himn-
rijke/til hvørs ad vær þvi meir nå-
lægiunſt/ og æ þeſſ meir/ ſem vier
þiñ um oſſ veikare i Lijkamanum/Þar
byrer er þad allt tilbærelegt / ad vær
tilreidum oſſ/ſkydum/ og byrerſkip-
um ollum Hlutum. Og nu kiære N.
Ef þad kañ nockud bunglegt ad ligg
ia i þiñe Samviſku/ſem þu vilier
mier ſagt hafa / þa mættu nu þad
vel giøra. Sijdań villum vier hvør
med

med ødrū til Guds kalla/epter Chri-ſtelegre Skickan.

HJer giøre ſa Sieke ſyna Jaatning/og a medan þad er giørt/þa gange Foolked i burt/ og kalleſt aptur epter Jaatningunna. Epter Jaatningenna / þa ſkal Preſturenn ſetia hendr yfer hin Sjuka ſugaunar Greiner heilags Evangeli/med allre Alwo og Rægſemd/ og giefa hønum Aflauſn / og enda þad med þeſſum Ordum edur þvilykum.

MJn kiære Brooder (Syſter) med þvi ad þu ydraſt nu þiña Synda af Hiarta / og þu treiſter alleina uppa Guds Naad og Myſkunſeme/ fyrer vorn Herra JEſum Chriſtū/ þa eru þier allar þijnar Synder fyrergiefnar. Vertu Hughrauſtur og Othræddur/ſet þier alvarlega i Hug og Hiarta/ad drygia ecke hiedan i fra Synder og Glæpe. Þijn Trw giefer þig hialplegan. Þviad vors Herra Jeſu Chriſti Blood/ þad afþvær og hreinſar allar þijnar Synder / Joh.

Joh. 1. Apocal. 1. Og frwdu ẏyr, er oss/þar er eckert añad Nafn giefid Mōñunum under Himnenum / i hvoriu vier kuñum ad verda Sælu-hoolpner / ucañ i Nafne þess Kross-festa JEsu Christi/vors DRottens og HErra.

Þar epter lese Prestureñ þessa Bæn og Jætning.

HErr Almættuge Gud og Him-neske Fader. Vier aumer Fraf-faplega synduger Meñ / medkieñ-umst/ ad vier hafum syndgast fra Barnæsku/allt til þessarar Stund-ar/ i moote þijnū Bodordum/i vond um Hugreñingum/ Ordum/ Vilia og Verke/sem vier giefum med ong-vu moote reiknad / þar fyrer erum vier ecke makleger ad nefnast þijn Børn / eda upplipta vorum Augū til Himna. O miñ Gud og Fader

vier villdum nu þig alldrei reitt hafa/ Bidiande erum vær þig / saker þiñar Myskunseme / og Heidurs Nafns þijns / ad med Fyrergiefning vorra Synda / viljer þu oss i Naadeñe medtaka.

## Aflausneñ.

ALlsmegtugur Gud og Himneskur Fader/hñ myskune oss/sa sem hefur sendt siñ Son i þessa Verolld til Dauda/ hvor ed Foornfærdur var sem saklaust Lamb fyrer vorar Synder/ a hvorn ef vier truum / þa munum vær med Spillvirkianũ a Krossenum edlast bæde Fyrergiefning Syndaña / og so Jñgongu til Lijfsins. Ef þu trwer þessu af ollu Hiarta/ þa seige eg þig af Krafte Gudlegrar Lofunar / lausañ og lidugañ af ollum þijnum Syndum / J. Nafne Fodur og Sonar/og Anda Heilags/ AMEN.

Laat

Sydan seige prestuten.

MIn Gud / gier þu Hoolpen þi-
oon þinn / þann til þyn vonar / Se
nd þu honum Hialp af þijnum Hel-
gedoonie / og af Zyon gierdu hann
hoolpen. Drotten / sierdu honum styrk-
ur Kastale / fyrer Asioonu Ovinar-
ens / Drotten / heyr þu vora Baen /
og lat vort Akall koma til þyn.

Lectium off Bidia.

Almattuge / Eilijfe Gud / þu sem
leingder Lijfsdaga þyns Thioons
Ezechie Kongs umm fimmtan Ar:
Vier bidium þig Audmiuklega / ad
þu villder med þeirre somu þinne
Magtar Hende / Heilsu lieria þessu
þijnum Thioon (þessare þinne Am-
batt) hier til Heidurs / epter því
sem hier vel þocknast. Fyrer Jesum
Christum þinn Son / Amen.

Sya-

Sijdan læte Presturen upp lÿfted Bor-
d/og legge hreinan Dwk þar uppa/eda
so sem han kan hvi best aþ stad ad koma
Læte Vijn i Kaleik/ Braud a Patinu/
sette upp Vaxi Kloos / Snwest sijdan til
þess Stwka og Seige.

MIñ goode Brooder (Syster) med
þvi Þu villt nu medtaka Vors
HErra JEsu Christi Holld og Blo-
od/ og miñast hañs Dauda og Pij-
nu/ þa gieþ vel giætur ad þeim Ord-
um sem ad hlioode uppa þetta heila-
ga Sacramentum hañs Holldes og
Bloode/og trw þeim aþ Hiarta/og
þacka honum þyrer þa Oumrædele-
gu Elsku sem hañ hafde til vor/þa
hñ fyrer Koorrþæting sijns Lijkama/
og Vthelling sijns blessada Bloode/
leyste oss þra Fyrerdæminguñe/Guds
Reide/ Syndenne / Deudanum og
Helvijte. Og til æþenlegrar Miñing-
ar hier um/heþur hañ giefed oss sitt
Holld og Blood ad eta og drecka/ til
eins

eins Jnsiglis e pullkomlegrar Stir
fingar / uppa hans Ord og vora
Sælu hialp.

Til Folksins sem stadt er vid þessa Heil
lögu Pisonustugiörd hia hinum Siwka
Setge prestureñ So.

Vor Drottenn JEsus Christus sei
ger so sialfur / ad hvar tveir eda
þryr eru samankomner i mijnu Nafn
ne/þar er eg midt a mille þeirra. Og
hvad sem vier bidium i hans Nafne/
þad fäum vier vissulega. En sakee
þess ad vier erū hier i Nafne Drott
ens til samans komner / ad halda
Minning hans Heilaga Dauda / þa
skulum vær i Nafne Guds / giefa
vorum Siwka Brodur (Systur)
Guds heilagt Sacramentum sem nu
kañ ecke ad komast med oss til Kyrk
iuñar Samfundu.

Sydañ lese hatt og skyrlega Credo og
Pater noster i Modurmaale. Take
sydañ Petinuna med Braudenu / og lese
Helgunar Ordenn.

Vis

VOr HErra JEsus Christus / A peirre Nott sem han forrådest vard / Took han Brauded / giorde Packer / og braut pad / og gaf synum Lærisveinum / og sagde: Taked og Eted / Pad er min Lykame / Sem fyrer ydur verdur giefen / Giored pad i mijna Minning.

Giefe peim Stykke / Og Seige:

Lykame Vors HErra JEsu Christi / Wardveite pijna Saalu til Eilyfs Lijfs.

Take sydan Kaleiken / Og Seige:

SOmuleidis epter Kvoldmaltijdena / Took han Kaleiken / og giorde Packer / Gaf peim han og sagde: Drecked aller hier af / pad er Kaleikur hins Nya Testamentis / J mijnu Bloode / sem fyrer ydur wthellest / Til Fyrergiefningar Synda-

Syndaña / So opt sem þier gløred þetta / Drecked þad i mÿna Miñing.

Giefe þeim Siwka / og seige:

Blood vors HErra JEsu Christi / vardveite þÿna Sal til eilÿfs Lÿfs.

Epter þetta seiger Presturen til hiñs Siwka:

Nu miñ kiære Brooder (Syster) þu hefur þig nu bevÿsad Christen Mañ vera / og ert nu eitt Limur Christi Lÿkama / þar fyrer verdu nu miñugur / ad hver sem med Erwiñe verdur iñplantadur Christo (ad þo hañ deye) þa man Daudenn þonum ecke leinge hallda / helldur mun hañ upprÿsa a Doomsdeige / ecke til Daudlegs Lÿfs / helldur til eilÿfs Lÿfs / og mun sia Gud Auglite til Auglitis / samteingdur Blessudum Heilogum Guds. J þessare Von styrk Hiarta þitt / og set þiñ

þiñ Anda og Vilia til Guds Vil-
ia/ sem skapad hefur Himeñ og Jord
af auingu epne / hañ mun og þig
(hvern hañ hefur skapad epter sine
Lijkneskiu & Lykning/ og hañs Sonur
hefur endurleyst) ecke forlata/so þu
fordiarfest Eilijflega. Nægleidtu
þau niotarfullu Fyrerheit / sem sa
Sañleiksfullaste Gud hefur so marg
faldlega lofad. fyrer Spameñena
og Postulana/ einkanlega / ad þeir
sem trwa a Christum/ þeim er lofad
Himnarijke. Gierdeilis lættu þier
ecke vor Miñe falla / hversu beyskañ/
hadueglegañ/ harmkvælafullañ
Dauda/ad Christur hefur þolad fyr-
er oss / og bid àf Hiartans Gruñe/
ad soddañ hañs kraptugasta og nægi-
legasta Forþienan verde sett i
mille þinnar Salar og hañs Riettc-
lætis /i þiñe Fraiñfer /og so trw þu
med ollu/ ad hañ hafe gnoglamlega
fyrer þig þolad / og med siñe For-
þienan

þienan þier tilreidt hia Gude / Heimkynne eilijfs Lijfs / Lioofs og Glede / Christur hinn Krossfeste / hann ende vid þig oll sijn Fyrerheit / Amen.

## Signingenn.

GUd vor Himnesku Fader / sem þig hefur skapad / hann blesse þig. Gud vor HErra JEsus Christus / sem þig hefur endurleyst / hann frelse þig. Gud Heilagur Ande / hann upplijse þitt Hiarta i sannre Ydran / riettre Trw og Yfirbotardingu / og Christelegum Kiærleika. Þesse heilog Þrenning styrke þig bæde i Salu og Lijfe / og hiafe þig stodugann standa i allre Anfedtingum og Freistingum / med riettre Trw. DROttenn vor Gud sie med þier / og blesse þig / og vernde þig fyrer ollu Vondu / og giefe þier þad eilijfa Lijf / Amen.

Fridur

# FRIDur DROTTENS Sie Med ÞIER / AMEN.

EFTER þa hœd Naudsyn krefur / Ef hinn Siwke er længt komenn / Þa Lese fyrer hønum / FaDER Vor / Trwna og Helgunar Ordenn og soddann Aminning sem hann sier hinn Siwke gietur epter haft / og naa hans Krankleika / og þionuste hann strax sydann / og befale hann so Gude i Vald. Item þar sem vera kunna Siwker Menn i Bwonum og Koþum / edur ødrum Oklaurum Stødum og Hreisum / þa skulu Prestarner til / ad þeir med allre Athygle / umhyxe og fyrer Guds skullld vidleite / ad handtierast mætte þad heilaga Sacramentum / sem Hreinlegast og Vondugs legast sem þad verdur giørt.

Ei skulu Prestarner hia þeim Siwku hafa utann þeirra eigenn Klæde. Þar fyrer hafer øllum Gudhwsdum Kirkiumønnum ad hafa Arlegan / Sidsamlegan Klæbunad / til Heidurs vid þad hæleita Sacramentum.

Þar sem Presturenn verdur Litt Siid kalladur til Siwks Manns / Þangad skal hann optat koma ef hinn Siwke hefur þess Þørf / utann svo sie ad sa Siwke hafe einn

hwsann

hverju a Børnum sem lesa kan fyrer hön um af Guds Orde.

## Vm Hiona Vijgsluna / Epter Vmtevdjan/ vegna Einfalldra j Lijtilærdra Presta.

SVo skrifar Sa merkelege Madur D. Marthinus Luth. Epter þui (seiger hann) ad Brwdkaupid og Hionabandsstietten er Veralldlegur Hlutur/ þa hæfum Vier hier ecke añad med / En ad giera Hionen samañ / sem vorra Samvitskunnar / med Christelegre Vnderviſsan og Fyrirbiettingu. Hier ad hnügur sa gamle Maalshattur/ Siñ er Sidur i Lande hvøriu. Þar fyrer byriar oss og ad lata hvert Land/ Borg og Bæ halldast i sijnum Lofligum Sidvana um Trwlofan/ Kaup/ Festing/ Brwdkaup og añad sem Hionabands Giørninge Tilheyrer. En med þui Landsvijsa er Landz Vana/ þa byriar oss ei helldur ad um̃breyta þui/ sem Gamallt/ Christelegt og Loflegt er hier hia oss / Ad hvøriere Breytne ei kiemur añad / eñ Kap og Osamþycke/ med allre añare Oskipan. Þui vil Eg samant

minnt og umbeded hafa / Alla Kiennemeñ og Presta / Ad giæta vel ad vorum gømlu Kyrkiulögum og ødrum Christelegum Skyckunum / þad Hioonabandenu vidvykur / so ad aller Hluter mætte þvi betur og Christelegar Tilganga i þessu Efne.

Fyrst er þad athugande / Ad sa sem vill Gipast / hañ uppbyrie þad med Bæn og Akalle til Guds / Þviad so skrifar sa vyse Madur Salomon: Gots og Peninga taka Meñ epter Fødur og Moodur / Eñ Good Kona kiemur af Gude.

Þar næst / sa sem sier vill Konfangs leiter / þa skal hañ þeirrar Meyar eda Konu leita med goodre Forsiaa / Ad er sieu Meinbuger a / so ad hañ vite / med þeim fleyrum goodum christelegum Greinum / sem ad standa i vorum gømlum Kyrkiu Lögum.

Þad skal og øllum kunngt vera / Ad so er nu skipad / ad þar skulu eingeñ Hioon samangiefast / sem eru Þrymeñingar og þar fyrer innañ. Leynelegur Hiuskapur / Kaup edur Trwlofaner / er med øllu fyrerboded / og ad aungvu halldande / ef helldur þar Trwlofanet sem skie i moote

Villia og Rade Foreldranna/ Edur Gipt-tingar Mala.

Leikmenn skulu nu ei Kaupa med nockrum Hioonum/ og einginn nema Sooknar-Prestur. So skal og Presturenn taka til syn/ Minsta Koste 5. Ærlega Menn/ sem Vitne skulu vera Hioonabands Gipt-tingsins/ hvad sem aliggia kann.

Vandlega skulu Prestarner fyrerbioda Hioona-Efnunum ad koma saman/ adur enn þau eru Saman vygd / Enn ef þau þad ei hallda/ Þa afleysest þau Opinberlega / sem fyrer Fryllulijfe/ Þviad slijkar Hneixlaner eru i Christelegre Kyrkiu ecke Lydande.

## Ad kaupa med Hioonum.

Nu ad framsøgdu Fiekaupe og ollum Skilmaala/ Þa spyrie Presturenn þann ad med þessum Ordum.

Villtu N. Son taka þessa Koirku (Jomfrw) Þier til eigen Konu / so Siuka sem Heilbrigda / hvad sem Ydur kann til

til Handa ad bera / og medan Þid lifed Bæde ?

Seige Hann Ja.

Villtu N. Dootter taka þenna Mann Þier til Hwsbonda / og eiga Hann so Siukann sem Heilann ?

Seige Hun Ja.

Epter Jayrde þeirra Beggia þa takest Þau i Hendur / Og Seige Presturenn So.

GUD Sime Handaband Þessara Manna sem hier taka Saman sáman/ Ap Eirnre Alfu N. N. Eon/ og N. N. Dootter. Enn þad þeist og Kilst under þessu þeirra Handabande/ad þau Lofuda med sier Hiuskaparband/ so framt sem þad Meina ecke Guds Log / Og med þeim Skilmaala sem nu var framsagdur. Erud Þid Skylldug ad læta lysa Þrim Sunnudaga/ ádur Þessar... fram/ Ydar Þynga-Prest/ og epter

Festing erud Þid skylldug ad lata
Ydur Samañvÿ[?]zia (ellegar verdur
Athuge a Ydar Hioonabande) og
med þessum Skilmala og ædurseg-
dum Kaupmala/ Sie Handabonded
Laust/ Eñ Kauped Fast/ Ad Vitne
Guds og allra þeirra goodra Maña
sem nu eru Vidstadder.

Sydañ sie lyst i Kyrkiuñe med þessum
Ordum edur hvilykū/ Prim Suñudaga.

ÞVi Vil Eg Lysa fyrer ydur/ ad
N. N. Son og N. N. Dootti-
er hafa Rada med sier Hiwskap-
arband epter Gudlegre Skickan/ og
Landsins Logum. Og ef nockrer
eru hier vid stadder / sem hier vita
nockra Meinbuge a / Frændseme/
Mægder eda nockra adra Talman
edur Hindran/ So ad þesse Rada-
hagur meige ecke ad Logū takast /
þa skylldast þeir til ad seigia/ edur
Fesiar fara fram. Eñ þeir sem

Lysing

Lÿsingena Heyra og Meinenn vilia/ og vilia ecke til seigia / Eiga ecke seirna þar umm ad Heyrast: Er þesse su Fyrsta (Auñur / Pridia) Lÿsing i Kyrkiuñe þetta a mille.

So og er eg ydur amiñande/og audmiwklega bidiande/ad þier bid- ied fyrer þeim til Guds / Ad þau meige þetta i Hañs Nafne upphyr- ja/so þeim vel luckest fyrer Sal og Lÿf/og seigium þar til/Fader Vor.

## Hioona Vijgslan Sialf.

AD endudum þremur Lÿsingum/kome Hioonaefnen til sijnar Sooknar Kyrkiu a Suñudeige / og læte sig þar saman giefa og vijgia/epter Guds Orda Hliood- dan og Christeleigre Skickan. Og sod- dan Hætt meiga þeir hafa sem ei betur kuña.

Fyrst a Suñudags Morgunen gange allt Folk til Stofu/edur i nockurn añan hreinlegann Stad. Skal þar þyrst amin- na/ hvad fram foor a Kaup/Deige / um

þeirra Fielag Hjonabã. Og ef aungvar Hindraner koma þa eñ fram/ þa skal þañ Festa Konu sýna / epter vorum Landsl løgũ / ad heyrdu Jayrde beggia þeirra/ sem Sidur er til. Jatte so hañt ad allt er heyrt/og sie vel adgiætt ad Kvenñpersoñ sie Gneydd/og hafe siñ frialsañ Vilia. Og take Brwdgumeñ i Hønd á Brwdeñe / Og mæle þessum Ordum.

Eg N. Sen Feste þig N Dootter/Mier til Løglegrar Eigeñ Konu / epter Guds Løgum og Landsins og Heilagra Fedra Setninge/ Nu Ertu miñ Løgleg Eigenn Kona hiedañ aff.

Ad þessu endudu/ gange þau i Kyrkiu hvørt med siñe Fylgd/ og a mot Kyrkiugolf/ Prestur sie bweñ.þar til sinnar þion/

Hioonustugiørdar/gange Prestur til þeirra og take so til Orda.

Gooder Christi Viner / Kuñugt er ydur hvar komed er med þessum Persoonum sem hier standa i Augsyn Heilagrar Kyrkiu. Eru þau hier nu komeñ / ad læta sig samañ vigia med GVds Orde og Christelegre Bæn / ad Gud villde giefa Lucku og Blessan til þeirra Hiwskapar.

## Til Brwdhioonaña.

MEd þvi þid slijkt gyrnest / Þa vil eg eñ sem fyrr spyria. Viltu N. Son taka þessa Kviñu (Jomfrw) þier til Eigeñ Konu / so siwka sem Heilbrigda / hvad sem yckur kañ til Handa ad bera / A medañ þid lifed bæde?

Seige hañ Ja.

Villtu N. Dootter taka þeñañ

Man hier til Hwsbonda / og eiga Hañ so Siwkañ sem Heilañ ?

Seige Hun Ja.

Hier Skal prestureñ Leggia peirra Hendur til samans / Eñ syna Hønd þar yfer / Og seige so til Foolksins.

MEd þvi ad þessar Ærlegar Persoonur N. og N. hafa samþyckt vordeð / og giefed sig til Heilags Hiwskaparbands / og hafa nu þessu hier jatad og medgeinged Opeñberlega fyrer Gude og Christelegre Kyrkiu / etc. Þa seige eg Þau Riettelega Samteingd / J Ærlegū / Christelegum og Løglegum Hiwskap. Ad Vitne Guds og godra Maña / J. Nafne Fødurs og Sonar / og Heilags Anda.

Hier Epter Seige presturen Til Hioonanna.

Med þvi þid hafed giefed yckur i Guds Nafne / J þa Heilegu Hiwskaparbands Stiett / Þa heyred nu fyrst Guds Ord / Sem hlyder uppa þessa Stiett.

J

HOn Gud DRottenn sagde/ Pad er ecke gott ad Madurenn sie einsamall/ Vier viliu̅m giora honum Hiealp/ pa med honum sie. Pa liet Gud DRottenn Soefnhofga falla a Mannenn/ hann Sofnade/ og hann took eitt af hans Rifium og fyllte aptur i stadenn med Holld. Og Gud DRottenn skapade Konuna/ af pvi Rife sem hann took af Mannenum/ og leidde hana til hans. Pa sagde Madurenn / Petta er Eitt Bein af mijnum Beinum/ og Holld af mijnu Hollde/ par fyrer mun hun Karlinna kallast / Pvi hun er af Karlmannenum komenn. Og pess vegna skal Madurenn yfergiefa Fodur og Moodur/ og samteingiast sinne Eiginn Konu/ Og Pau Tvo skulu Eitt Holld vera.

Þessu næst þa heyred GUDs Bod og Bïþaling / hvorneñ Gud vill þid lifed i þessare Hioonabands Stiett.

Til Ephesios 5. Cap.

Þier Meñ / Elsked ydar Hwssfreyur / lijka so sem Christur Søfnudeñ / og gaf sig sialfañ wt fyrer hañ uppa þad hañ helgade hann / og hreinsade fyrer Skijrnar Baded i Ordenu / So ad hañ tilbigge sier sialfum Dijrdlegañ Søfnud / sem ongva Fleckan edur Hrucku / eda þesskonar hefde / Helldur þad hun sie Heilog og Dstraffanleg. So skulu og Meñeñer elska sijnar Eigeñkonur / sem sijna eigeñ Lijkame / Hvor sijna Eigeñkonu elskar / hañ elskar sig sialfañ / Þvi eingeñ hefur um̃ Alldur sitt eiged Hollð hatad / helldur nærer hañ þad og foost-

sooskrar/so ꝫ Drottens Sopnudenō

Kvinurnar vere synum Bændū undergiepnar/so sem Drottne/þvi ad Madurenn er Kvinnunar Hopud/ lyka so sem Christur er Sapnadarens Hopud / og hañ er Frelsare syns Lykama / Eñ lyka so sem Sopnudurenn er nu Christo undergiepenn/ so og eirnenn skulu Kvinurnar synum Bændum i ollu.

J þridia lage meiged þid heyra þañ Mootlætis Kross / sem Gud hepur lagt a þessa Stiett.

So sagde Gud til Konuñar/Fiolga mun eg Eymder þynar / Þeg‑ar þu verdur Oliett / Skalltu þyn Born med Sooff og Harme fæda/ Og under Boonda þyns Valde skalltu vera/Og hañ skal þiñ Herra vera/ Gen. 3. Cap.

Og til Adams sagde Gud: Fyr

et þañ Skulld ad þu hlydder Raust Konu þiñar / og æist aff þvi Trie hvoriu eg bañade þier / Og sagde: Þu skallt ecke þar aff Eta / Þa sie Jorden Bolvud fyrer þyna Skull- lld. Med Ervide skalltu þig aff hen ne fæda / alla þyna Lijfsdaga / Þyr na og Þyrsla skal hun þier bera / og þu skallt Jardareñar Jurter Eta. J Sveita þyns Andlitis skalltu þyns Brauds neyta / þar til þu apt ur ad Jordu verdur / sem þu ert aff komeñ / þvi ad þu ert Molld / og ad Molldu skalltu aptur verda.

J Fioordu Grein er yckur þad til Huggunar / ad þid vited og trued / ad yckar Stiett er fyrer Gude þæ- geleg og Blessud / þvi so seiger Rit ningeñ.

Gud skapade Mañeñ epter sial- fs syns Mynd / Ja / Epter Guds Mynd

Mynd skapade hañ hañ/ Og hañ skapade þau Kallmañ z Kveñmañ/ og Blessade þau/ og sagde til þeirra: Vaxed og Fiølgest / og fylled Jordena/og legged hana undet yckur. Drottned yfer Siafarens Fiskum/og yfer Himensins Fuglum og øllum þeim Kvikindum sem hrærast a Jardrijke/og Gud leit allt þ er hñ hafde skapad/ og sia þu/ þ var allt samañ harla Gott. Þar þ segier Salomon so: Hvør ē eignast eina Kviñu/ hñ fær goodañ Hlut/og med tekur Þocknan af DROTTne.

Her skal Presturenñ bidia Foolked ad Bidia til Guds fyrer Hioonunum / og legge sijnar Hendur yfer þau/Og Seige.

Latum Oss Bidia.

ALLsvalldande Gud Drottenñ/þu sem Karlmañ og Kveñmañ hefur Skapad og skickad til Hioona-

Bands Stiettar/ þar til med Eꝼ‑
kamlegu Aþkvæme bleff ad/ og þad
Sacramentum þyns Elſkulega
Sonar JEſu Chriſti/ og Chriſt‑
neñar hañs Brwdur þar med teikn‑
ande. Vier bidium þyna Omæle‑
lega Goodgyrne / ad þu viliet ecke
þyna þvilyka Skøpun / Skyckun
og Bleſſan/ læta til Onyts verda
nie Fyrerþaraſt/ helldur Myſkun‑
ſamlega vardveita / þyrer DRott‑
eñ vorn/ etc.

Auñur Bæn.

Vier vilium bidia.

ALmattuge/ Eilyfe Gud z Myſk‑
unſame Fader / þu ſem ſialþur
hepur ſkickad/ ad Madur og Kvinna
ſkylldu vera eitt Holld / og hepur
þeſſa Samteinging ſtadþeſt med
þiñe Næd og Bleſſan. Vier bidiū
þyna

þijna Myſkunſeme / ad þu giefer þeſſum Hioonum / ſem hier eru nu ſamañvigd i þijnu Nafne/ Nad/ Lucku og Bleſſan til Lijfs og Saalar/ad þau mætte frwlega og rietteolega þioona þier i Kiærleika og Sambycke / Og alla Tijma vera hlydeñ þijnu Heilaga Orde / ſo þau mættu a þañ ſijdaſta Dag / verda fundeñ i Tølu Riettchriſteña Mañа / i JEſu Chriſto þijnum Syne/ vorum Herra. Hvør med þier og Heilogum Anda / lifer og rijker/ etc.

## Hvørneñ Konu ſkal leida i Kyrkiu.

ÞEgar nockur Manndóms Kona ſtendur fyrer Kyrkiu Dyrum/ og ſkal i Kyrkiu ganga epter ſitt Barnburd / þa ſkal Preſtureñ til hennar koma/ ef hañ er kalladur þar til/ og ſeige til þeirra ſem þar i kring eru.

Godt.

**G**ODer Christner Brædur, Þesse vor kiæra Syster er nu i Dag hier komen til Kyrkiu-Dyra epter sijn Barnburd / þvi vilium vær aller þacka Gude fyrer hána / henne hefur vel geinged med Avext sijns Kvidar. Og vilium vier aller a Knie falla / og bidia fyrer henne Fader vor / so hun meige med Lyps-an uppfæda sijn Børn i Guds Otta og Neidran / og so fyrer ollum ødrum Dande Kvinum sem þungadar eru / hier edur annarstadar i Sveitū/ ad Gud vilie giefa þeim sijna Nad til ad skilia vel fra sijnum Avexte/ sijdan forvara han fyrer Elldе og Vatne / og ollum Lijfs Naska / so þær kome ecke i Naska fyrer Lijf edur Sal / fyrer sijn Børn.

**Fader vor / etc.**

Þar epter seiger han til hennar / þa hun er Inleidd.

Med

MJn kiæra Syster / Kom nu iñ apitur i Christelega Samkundu/til ad fullgiora þad sem Christelege Kvinnu ber ad giora hier/iñañ Kyrkiu. Vor DROTTeñ JEsus signe/hier sijna Myskun/Matte þynum og Bornum/ og ollum þeim Gud Ottast ad Eilijfu/ Amen.

## Hvornenñ Lijk skal grafa.

Þa Lijk koma til Kyrkiu/ þa skes tilborest epter Veniu. Og se þeingt/ ed yfer hiñ Dauda / helldur ad uppvekia þa hina Lifendu : Eñ a medañ Lijked er bored wr Kyrkiuñe / og til sijns Legstadar/ þa skal syngia þeñañ Psalm/ Ur Diupre Hrygd : Messu Upphaf Suñudageñ Fyrstañ i Føstu / Þar nest þeñañ Psalm.

Mitt i Lijfe erum vier/ umm vafder med Dauda / hvort leitum so þiñu hier / Hialp

vid

vid þessu Boda? Til þijn Drottẽ
eñ alleina/ Illgiorda vorra ydrunst
nu/ er þvi vallda ad reidest þu/ Hei
lage HErra Gud/ Heilage sterke
Gud/ Heilage Lijknsame Lausna
re/ þu Æfenlege Gud. Lat oss ecke
falla/ i þa grim̃u Daudans Neyd/
Kyrieeleison.

Midt i Dauda ad oss stær/ Ogn
af Vijtis Kvolum/ hver þeim af
oss hrunded fær/ Hialp þa oss vier
falum/ þad ertu DRottẽ alleina/
Mæder Hiartans Mijskun þijn/
Mañkyns Kvol og Synda Pijn/
Heilage Herra Gud/ Heilage ster-
ke Gud/ Heilage Lijknsame Lausn-
are/ þu Æfenlege Gud. Lat oss
ei opbiooda/ Ogn af Vijtis grim̃-
re Glood/ Kyrieeleison.

Midt i Vijtis mestu Ogn/ Mis
giörder oss reita/ Hvar fæum vier
þeim

þeim Hialp i giegn? Hvar kann oss Lid ad veita? Þad ertu DRottenn alleina/ þvi Blooded þitt vor Christe kiær/ Kvittad allar Synder vær/ Heilage HErra Gud/ Heilage sterke Gud/ Heilage Lyknsame Lausnare/ þu Æfenlege Gud. Hialp oss þa Heim vid skilium/ ad hallda rietta Trwarslood/ Kyrieeleison.

Nær Lyked er komed til Grafarennar og nidursett/ kaste Presturenn Molldar Rekum þremur i Grøfena/ segiande:

# Af Jordu ertu komenn/ Og ad Jordu skalltu aptur verda/ Og af Jordu skalltu Upprijsa a Ysta Deige.

A medann Menn fylla Grøfena/ þa skal syngest/ Vier Trwum aller a einn Gud.

Nidann

